[Þess íslendska evangeliska
smábóka félags rit No. 32.]

# Litla Jóhanna.

(Útlagt úr engelsku af utgéf.)

## Fyrsta Atridi.

Jóhanna var dóttir fátækra foreldra, í þorpi því, hvar forsjón Guds þóknast hafdi, ad láta mig fyrst þjóna kénnimannligu embætti.

Þegar eg fékk ad þeckja barn þetta, var þad hér um 12 ára ad aldri, sem reis af því, ad hún kom til húss míns, ásamt ødrum børnum þar í þorpinu, hvor eg kalladi til mín, ad uppfræda þau í sínum Christindómi, á hvørju laugardags kvøldi.

Eg lét þá børnin lesa á bók hjá mér, hafa yfir frædi sín, sálma, vers og ritníngargreinir, sem þau kunnu; og eg plagadi ad laga yfirheyrsluna eptir aldri þeirra og gáfum, og einnig opta høndla vid þau um þad efni, er ætti giørdt þau hyggin til sáluhjálpar. Á kvøldin, um sumartímann, var eg opt vanur ad safna

þessum litla hóp saman, í mínum aldingardi, útifyrir húsdyrum mínum, hvar vid sátum undir skugga af trjám, er skýldu oss fyrir sólarhitanum.

Í þessum stad höfdum vid fyrir augum ýmislig skodunar efni, sem gjördu mína uppfrædíngu ad mikilvægari og ávaxtarríkari. Því nálægt þeim stad, hvar vid sátum, lá kyrkjugardurinn, frá hvörjum, í allar áttir, var yndisligt til ad sjá. Í hönum láu grafnar leifar dauðra í þúsunda tali, yngri og eldri, af ýmsu kyni og ættum, eptir sem þær, hvad af ödru, höfdu verid feingnar jördunni til geymslu.

Hér vóru þeir nafnfrægu formenn hinna ríku, og þeir lítilsmetnu fedur hinna fátæku, hvörra moldir láu hér samanblandadar, og bidu sameiginliga upprisunnar frá daudum. Svoleidis hafdi eg þá skamt í burtu skodunar-merki þau, er eg hentugliga sèck notad, til ad advara og upphvetja þennan minn litla lambaflock, er eg átti ad fóðra. Eg gat bendt þeim til leidishædanna, sem adgreindu grafirnar hvörja frá annari og sagt mínum litlu lærisveinum ad svo úng þau væru, væri þó eckert þeirra ofúngt til ad deya, og ad fullur þridjúngur af líkömum, sem þar grafnir væru, mundu vissuliga vera líkamir eins lítillra og minni barna, enn þau væru. Ut af þessu tók eg mér tilefni, ad tala um náttúru og dýrmæti sálarinnar, og ad spyrja

þau, hvørt þau héldu sálir sínar fara mundu, þegar þau ættu að deya burtu úr heiminum. Eg sagði þeim hvør sá væri, sem væri "upprisan og lífið," og hver alleinn kynni dauðans brodd í burtu að taka. Opt plagaði eg að minna þau á, að "sú stund mundi koma, að allir þeir sem í grøfunum væru, skyldu heyra hans rødd, og þá mundu þeir, sem gott hefdu gjørt, upprísa til sælu, en þeir sem illt hefðu aðhafst, til fordæmíngar." Stundum notaði eg mér tæki-færi þetta, til að vekja hjá þeim endurminníngu um nýskéð dauðsføll þeirra eigin skyldmenna, sem grafin láu þar, nálægt oss.

Sum høfðu mist foreldri sitt, sum úngan bróður eður systur; sum høfðu mist allt skyldfólk sitt, og voru því komin uppá meðaumkun nágr-anna sinna, svo sem aðrir munaðarleysíngjar. Kríngumstæður þessar gáfu hentugt færi til að uppvekja viðkvæmar sinnishræríngar, er ollað gjætu alvarligs eptirþánka. Stundum sendi eg børnin til þeirra ýmisligu legsteina, sem voru yfir grøfunum, og sagði þeim að læra gráfskrift-irnar, sem á þeim vóru. Eg hafði yndi af, að hjá þessar litlu manneskjur svoleiðis á víð og dreif um kyrkjugarðinn, og hvørt um sig vera að læra fáein vers, í endurminníngu þeirra burtdánu.

Þau kóptust við að lúka af þessu fyrirsetta

verki, og géta, sem fyrst, hvørt um sig, komið aptur til mín, til að lesa upp fyrir mér þessa litlu lectíu. Svoleiðis þénaði kyrkjugarðurinn mér fyrir lærdómsbók, og sérhver legsteinn var sem eitt blað í henni, til að uppbyggja mína úngu lærisveina. Þar í miðju stóð nú kyrkjan, út af fyrir sig, yfir grundvellinum; hún var snotur, rúmgóð, en þó gømul bygging. Innan hennar var það, sem eg fýrst hóf að úthrópa Guðs náðarboðskap til syndaranna. Þegar nú børnin þyrptust allt í kríng um mig, bendti eg þeim stundum til kyrkiunnar, og talaði við þau um náttúru ennar opinberu Guðs dýrdkunar, um gyldi og verdugleika hvíldardagsins, og um skyldu mans, að géfa regluliga gaum að allri Guðs þjónustugjørdinni; eg brýndi og svo fyrir þeim, að þau skyldu alvarliga athuga náðarráðstøfun Guðs við mennina eptir Evangelío. Eg setti þeim fyrir sjónir það hørmuliga ástand, sem væri í morgum løndum, hvar menn vissu hvørki af kyrkjum né Biblíum að seigja; sem og einnig það jafngrátliga ásigkomulag fjølda manna í kristninni, sem midt í ýdrunarleysi vanrækja Guðs tilbeiðslu og forsmá hans orð. Á þennan hátt reyndi eg til, að gjøra þeim tilfinnanligt, hvað mikið þau ætti, framar øðrum, Guði að þakka, að hann hefði unnt þeim að þekkja og njóta sinna náðarvelgjørnínga Ei heldur gleymdi eg hinum øðrum sjónarmerkjum

Guðsverka, sem þar í kríngum mig voru, út af hverjum eg draga kynni nockra bornunum gagnsama upp-rædíngu. Því margslags dæiligleika ennar skopuðu náttúru var þar að sjá. Til austurs frá oss að líta, útbreiddi sig stór móða eður stöðuvatn, er mindast hafði með tímaleingdinni, og var nærri því allt landi umgyrdt. Þar hjá var falleg høfn, þakin skipum af allslags stærð, frá smábátum eður ferjum, til enna stærstu stríðsskipa. Til hægri handar við høfnina var háls eður hæð, prýðiliga lagaður og býsna hár til að sjá. Sá sami háls var mikið blómlugur og grøsugur, og mørg hundruð fjár geingu á beit upp eptir hlíðum hans, allt upp til efstu brúna. Hinumegin þess sama vatns var flatlendi, um hvørt að voru til og frá akrar, skógar gyrdíngar og smábæir. Ysst á þessu nesi, nærri við sjáfarstrøndina stóðu leifar af turni gamallrar kyrkju, hvørjum haldið var við lídi, til þess hann vera skyldi stefnumerki sjófarendum, að leggja rétt að landi. Aleingdar þar frá hafnar víkinni, var strøndin og landið þar hjá mikið markverdugt, því þar var að sjá stórar eikur, þorp og aðrar byggíngar, er sáust því gløggligar, sem þeir til baka lýsandi sólargeislar líka sem forgylltu þetta allt fyrir augum mans. Til suðvesturs frá garðinum var ønnur hæð, og svo þakin hjarðaflockum, en partur hennar var alsettur eikum. Undir þessum hálsi, upp frá kyrk-

jugardinum, lá stadarþorpid sjálft, yfir nockud hölla ida edur smáhæckanda grundvelli. Þessi samblandan húsa, aldingarda og skógareika mindadi fyrir augum mans yfrid yndisliga sjón.

Vellir nockrir láu ogsvo til austurs og nordurs frá kyrkjugardinum, hvar stór fjöldi fénadar géck á beit. Minn eiginn litli skógarrunnur og blómsturbed gaf og svo dæiligt álit, og umbunadi mædu þá, eg hafst hafdi fyrir ad setja þad í stand, svo vel med fegurd sinni sem ylman. Ef hid sæta sálmaskáld Israels hefdi nú setid í þessum stad, hvar eg og börnin vorum, mundi hann vegsamad hafa Gud, er slíkt skapad hafdi, med ad sýnaja út af þessum hans handaverkum. Eg kann ecki ad yrkja sálma sem Davíd, en eg girnist þó, eptir mínum litla gáfna vexti, ad vegsama Drottinn fyrir hans gjæsku, og útmála hans dásemdarfullu verk fyrir mannanna börnum. En hefdi Davíd og svo verid umkríngdar, sem eg, med flocki úngra skólabarna, og þad í þvílíkri afstödu, sem eg var, mundi hann víst enn nú einusinni upphrópad hafa, seigandi: "út af munni barna og brjóstmylkínga hefir þú styrkleikann tilreidt."

Eg hefi eptirlæti af ad framleida á ný sjónarspil þessi, því þó þau séu fyrir laungu skéd, er þó endurminníng þeirra sæt. Eg hefi eptirlæti af ad framleida þau á ný, því þau setja þanckum mínum fyrir sjónir eitt, ad vísu fyrir

laungu skéd, Guds miskunarverk, sem þó, fyrir Herrans sakir, ætti ecki gleymt ad vera. Eg hefi eptirlæti af ad framleida þau, því þau géfa mér endurnýada fullvissu um það, hvorsu Gudi þoknadist, midt í minni heimugligu em-ættis-verka ydju, ad géfa mér, vid þetta tæki-færi, mitt hid frumgétna andliga barn.

Litla Jóhanna plagadi sífeldt ad vera vid þá ádur umgétnu barna uppfrædsíngu, sem eg heldt í hvorri viku. Í þá fyrstu 12 mánudi eda leingur, eptir það hún byrjadi ad vera vid þess-ar kénslu æfíngar, lagdi eg eckert sjakligt merki til hennar, framar enn annara barna. Hún gaf ecki teikn til neinna sjakra gáfna, ødrum framar, og yfir høfud ad seigja, heldt eg hún heldur mundi vera í daufara lagi; ad námsgáfu til, hjá ødrum sínum stallsystkynum. Optast nær las hún upp lectíu sína rétt eptir ordunum, en var sjaldan fær um, ad géfa nockurt andsvar til svoddan spurnínga, sem hún ecki fyrirfram var undirbúin ad svara til, þegar yfirheyrslan skédi uppá hendina, til hvørs þó ad sum af børnunum dugdu rétt vel. Hennar útlit sýndi ei heldur nockur merki til skarpleika, og augu hennar voru ecki neitt sérdeilis lífslig. Tækiliga var hún lesandi, og hún lagdi mikla mædu á sig ad læra, og þessvegna tók hún framførum. Gédmildi og kyrlæti var hennar sidferdis ein-kenni yfir høfud. Hún var mikid sjødug í því,

ad gëfa gjœtur ad opinberri Guds dýrkan í kyrkjunni, svovel sem og ad uppfrædíngu minni heima, í mínum laugardagsskólum; en, yfir höfud ad tala, var eckert stakligt hjá henni ad merkja, nema hennar sidláta og stillíngarsama hegdan. Hefdi eg á þeim tíma spurdur verid, um hvör, af mínum skólabörnum, eg hefdi bestu vonir, þá hefdi sú litla Jóhanna líkast til undanfeld verid úr þeirra tölu. Hvörsu lítt fáum vér opt þeckt, hvad Gud gjörir í annara manna hjörtum; hve vesæla ransakendur og dómara tjáum vér oss tídt ad vera, þángad til Drottinn opnar vor augu! "Hans þánkar eru ecki vorir þánkar, og ecki vorir veigir, hans veigir!"

Einusinni á sídara parti hins fyrsta uppfrædíngar árs, féll eg í furdu yfir hennar merkiligu athugasemi, eptir sem minni ósk svaradi. Eg hafdi, eptir mínum ádur áminsta máta sendt hana í kyrkugardinn, til þess hún skyldi festa í minni grafskrift eina, sem mér þókti mikid tilkoma. Þegar hún kom aptur, sagdi hún mér, ad fyrir utan þá, sem eg óskad hafdi hún læra skyldi hefdi hún og svo lærdt adra til, sem skrifud væri á annan stein þar rétt hjá; því hún sagdi sér hefdi þókt hún vera ofurfallig. Mér þókti hún og svo vera þad, og máské mínum lesurum þyki þad líka svo. Þessvegna skal litla Jóhanna, þó hún daud sé, enn nú tala; og medan eg skrifa þær línur, gét eg kroptugliga

íminðað mér, svo sem eg heyri raust hennar vera að lesa þær fram; og íminðun sú er mér stakliga eptirlætissull. Grasskriftirnar hljóðuðu þá svo:

Forlát þú skuggi þá tolluðu táraforn þér,
er tregar þinn skilnað, við heimslíkan þessi sem er;
forlát þá ósk, sem að hér girntist halda þér við,
og hindra þinn inngáng um sælunnar ljómandi hlið;
ei ert þú nú framar bundinn til bølmyrkra stands,
byrd heldur ei leingur fiotrum í dauðligleikans;
vér skyldum samgleðjast for þinni á friðarins torg,
og feta þín spor, til að ná inní sælunnar borg.

Þessi grasskrift var sú er eg setti henni fyrir að læra; en hin önnur, er hún lærði sjálfkrafa, og talaði um með eptirlæti, er þessi:

Svoleiðis, hlaut það ské, Adams að, foður vors fall
sékk oss svo giorvalla lagt undir dauðans adkall;
allir dóu í honum, — værum og vonlausir beint,
væri' ei það blessaða ritníng að þakka þér hreint.
Dýrðliga Guðspjall! þinn himneski ljómi það ljer,
að lifum vér hughraustir hughraustir deyum og vér
hjá grasar sjáum vér sælanda fángelsis hyl,
framskína dyrð eylífs lífs, sem þá komum vér til.

Síðar meir komst eg að, að sú evangeliska meiníng, sem í þessari síðari grasskrift fólgin er, hafði mikið tekið á hennar hjarta. En rétt á

þeim tíma, þegar þetta litla tilfelli skèdi, þeckti eg eckert sinnislag hennar. Eg hafdi allt eckert, yfir önnur börn fram, adgjætt hana. Opt hefi eg sídan verid sorgfullur út af því. Mér fanst samvitskan straffa mig, þegar eg merkti, hvad Drottinn gjördt hafdi ved hennar sálu, líka sem eg hefdi gleymt henni. En einganveiginn skèdi þad þó af ásetníngi. Hún var oss öllum ókunnug, ad undatekau því, sem eg fèck sídar ad vita, ad sidsemi hennar og fráhald frá syndum og gjálífi þeirra, sem voru jafníngjar hennar bædi ad aldri og standi, dróg yfir hana mikid háð og spott af ödrum; hvad hún umbar nærsta hógværliga. En á þeim tíma vissa eg eckert af því.

Eg var sjálfur úngur í embættinu, en þó yngri ad andligri reynslu; mínir prestligu adburdir höfdu ecki, um þad skeid, enn þá tekid fyrir sig þær ástædur, ad eptirgrenslast svo vel í mínum söfnudi, ad eg gjæti kunnugur verid þeinkíngar-hætti og hegdan fólks í sérhverju húsi, edur sérhverrar persónu, út af fyrir sig. Eg var enn nú ad öllu leiti sem lærisveinn, og átti mikid eptir ad læra. En hvad er eg þá nú? Sjeldliga er eg lærisveinn; og hafi eg híngad til lærdt nockurn hlut, þá er þad, ad eg hafi framveigis dag eptir dag æ meir og meir ad læra. Og, þad má eg í sannleika játa, ad mín úngu skólaborn urdu brádliga mínir lær-

endur. Því þá sá eg fyrst, hvad sönn trúar-brögð kunna ad verka, út af vitnisburdi barns Jesúa, um sína reynslu fyrir þeirra krapt. Drott-inn Jesús kalladi eittsinn eitt lítid barn til sín, og setti þad midt á milli sinna lærisveina, svo-sem bílæti edur útskýríngar-teikn uppá hans lærdóm. En hann gjördi hér, í þessu tilfelli, meira vid hina litlu Jóhönnu. Hánn ecki ein-asta kalladi hana, sem lítid barn, til ad sýna med einu eptirdæmi, hvad umvendanin væri; heldur kalladi hann hana og svo, fyrir sína nád, til ad verda eitt ker miskunarinnar, og lifandi vitni um þann almættis krapt og kærleika, fyrir hvorn hennar eigid hjárta vard til Guds um-vendt.

## Annad Atridi.

Þad voru hérum 15 mánudir lidnir frá þeim fyrsta tíma, sem Jóhanna tók til ad vera vid uppfrædínguna í mínum laugardags skóla, þegar eg misti hennar aptur frá hennar vana-liga plátsi. Tvo edur þrjú skipti lidu svo, ad eg ei gjördi neina staka eptirgrenslun í tilliti til hennar. Ad sídustu féck eg ad vita, ad hún var kraunk. Eingu ad sídur féckst eg þó lítid um þad; svo nærri tveir mánudir lidu svo, ad einginn mintist á nafn hennar. Loksins kom fátæk gömul kona þar úr þorpinu, um hvorrar gudhrædslufulla sinnislag og góda von hafdi,

og þessi kona sagði til mín: Herra! hafið þér ecki mist þá litlu Jóhønnu frá ydar húsi á kvøld-skólatímanum? Jú, svaradi eg, eg held henni sé íllt. Eg óttast þad dragi til eins fyrir henni, svaradi konan. Hvad, spurdi eg, heldur þú þá þar sé hætta nockur á ferdum? æ Herra, svar-adi konan, hún er í sannleika ofur vesæl, og mér synist henni allt af vera ad þýngja. Hún þráir mjøg ad sjá ydur, Herra! en er hrædd þér viljid ecki koma til svoddan fátækrar og úngrar barnskepnu, sem hún er. O, hví skyldi eg ecki koma þángad, sagdi eg, hvørt fátækt, úngdómur og mótlæti kallar mig? hvørsu kann nockur sér þad í hug ad leida? segdú mér, hvar er heimili hennar? Herra, svaradi konan, þad er fátækt kot, og hún skammast sín ad bidja ydur koma þángad.

Hennar nærstu nágrannar eru uppvødslu samt vondt fólk, og hennar eiginn fadir og módir eru sérlandadar manneskjur. Allir þessir gjøra gis ad þeirri vesælu Jóhønnu, vegna þess hún svo opt les í sinni Biblíu. Seigdu mér eckert frá því fátæka koti og vonda fólki svaradi eg, því slíkt er rétt þvílíkur stadur, hvørt einn Gudsorda þénari hlýtur ad vera kalladur, til ad verka mest gott. Eg skal koma til ad sjá hana, en þú mátt láta hana vita áform mitt. Eg skal gjøra þad Herra, sagdi konan; eg fer optast hvørn dag til ad tala vid hana, og þad

gélur gjördt eins hjarta gott, ad heyra hana tala. Nú vel, sagdi eg, hvad er þad þá helldst sem hún talar um? Hún, blessad barnid, svar- adi konan, talar um eckert nema góda hluti; svo sem til dæmis: um Biblíuna, um Jesúm Christ, um lífid, um daudan, um sína sálu, um himnaríki, um helvíti, um ydar rædur og um þær bækur sem þér hafid lesid fyrir henni. En Fadir hennar seigist ecki vilja hafa nein svoddan gudhrædslu læti á heimili sínu, og módir hennar ávítar hana, og seigir ad Jóhanna álíti sig sjálfa ad vera betri, enn annad fólk. En sú litla gófur eigi gáum ad neinu svoddan. Hún vill lesa sínar bækur, og talar svo ágiætliga vid módur sína, og bidur hana ad þeinkja um sína sálu. Gud fyrirgéfi mér, hugsadi eg nú í hljódi, ad mér ecki fyrri datt í hug, ad þeinkja um þessa fátæka barns ástand. Mér fanst eg nú finna til þess, hve mikilvægur hlutur ad barna uppfrædsugin væri, betur enn nockurntíma ádur; og einslags von upprann hjá mér, ad stúlkubarn þetta kynni ad verda einhvör hinn fyrsti ávöxt- ur af mínu embættis erfidi. Eg sneri þessvegna optur inní mitt herbergi, og badst fyrir. Eg þackadi Gudi fyrir þessa fregn, sem eg nú feing- id hafdi, og leitadi hans blessunar fyrir mína eigin sálu, sem og þeirrar litlu Jóhönnu. Eg endurminntist nú hennar kyrlátu, regluligu og kostgjæfnu athugasemi, á vorum litlu skólatímum;

og hennar merkiliga álit á grafskriftinni, sem eg áður fráságt hefi, uppvakti, með einslags makt, þessa þánka hjá mér: eg vona, eg virkiliga vona, sagði eg, að þetta dýrmæta litla barn, muni verða sannarligt Guðsbarn. Og — ef það skéður, hvílík miskun er það fyrir hana, og hvílík miskun fyrir mig!

Næsta morgun eptir kom eg til að sjá barnið; heimili þess var með vesælasta slag. Það stóð undir hárri brekku, er mindaði svosem einslags garð á bak við kotið; en hún var svo brött, að næsta lítill ávöxtur gat í henni sprottið. Einga að síður þénaði þó hið litla, til að sýna ecki einúngis, á þá aðra síðu, fátæktdóm þeirra, sem þetta áttu, heldur og svo þann sæla sannleika, að jafnvel í þeim verstu og örðugustu kríngumstæðum vill þó Drottinn veita manni forsjá. Heimkoma til kotsins var rétt ánægjusöm, af því viður sá, er húnángsstaung heitir, breiddi sín miklu blöð svo fallega og dæiliga upp með bæarveggnum, að hann innilukti bæði dyrnar, gluggana og reikháfinn, með sínum tvinnuðu kvistum. Þegar eg gékk nú inn í bæardyrnar, þá gáfu þessi blómstur frá sér sætan og endurnærandi ylm. Nær eg hugsaði nú um augnamið minnar þángaðkomu, þá upplypti eg í sama augnabliki þeigandi andvörpun til Guðs, og eg vonaði, sakir hinnar algyldu Jesú meðalgaungu, að mín koma verða mætti sætur ylmur

í hans augliti. Þau fögru blómstur og lauf aldingarða og akra géta verið nockurskonar ágiætlig eptirmind andligra hluta, þegar náð Guðs kénnir oss að brúka þau svo. Jóhanna litla lá í rúmi, er stóð ofantil við tröppur nockrar. Eg fann eingann þar í húsinu hjá henni, nema konuna, sem kvöldinu óður hafði sagt mér fréttirnar af henni. Undir eins og eg leit barnið, sá eg á ysirbragði þess, í hve mikilli hættu heilsa þess stödd var; það hafði allareiðu feingið þann andlits farfa, hvítan og rauðan, sem fylgir tæríngar sýki.

Nú inntók mig öldúngis ein, áður óþekt, viðkvæm elska til barnsins, sem spratt af þeirri sinnis hræríngu, er það verkaði í hjarta mér, að sjá það svo ásigkomið. Jóhanna litla tók nú á móti mér fyrst með hardla sætu brosi; en þarstrags á eptir brast hún í táraflóð, og stundi þessum orðum út: eg er svo glöð að fá að sjá yður, Herra! Það geingur mér sannliga mjög til hjarta, svaraði eg, að sjá þig, kæra barn, svo aumliga stadda, og það ángrar mig, að eg ecki fyrri varð var við þitt ásigkomulag. En eg vona, Drottinn, ákvarði þetta, þér til hins besta. Hennar augu, en ecki hennar túnga, útþrykti þá kröptugliga þessi orð: já; eg vona og þeinki hann gjöri það!

Nú vel, mitt kjæra barn, sagði eg, með því þú gétur ei leingur komið til mín að finna mig,

þá vil eg koma og finna þig, og við skulum tala um það efni sem eg hefi verið vanur að útlista fyrir þér. Í sannleika, minn herra, sagði hún, þykir mér ofurvænt um það. Því trúi eg, að hún vilji það, svaraði þá konan, vegna þess hún vill ecki um nockurn hlut svo tala, sem um það, er hún heyrdt hefir ydur tala í ydar rædum, og í þeim bókum sem þér hafið gefið henni. Eptir þetta spurði eg hana; lángar þig nú, mitt kjæra barn, innilega til að verða sannchristinn? já, æ já, svaraði hún, eg er viss um að mig lángar til þess, yfir allt fram! Eg féll í forundrun, en varð þó ofurglaður yfir þeirri alvörugéfni og einfeldni, með hverri hún úttaladi orð þessi. Síðan mælti hún: einusinni, Herra, þegar eg lá í rúmi mínu fyrir mörgum vikum, þeinkti eg um það, hvörsu góður þér vóruð að uppfræða ockur fátæklíngs börnin; og hvað mundi annars, án þess, af ockur verða! Eg er hjartanliga glaður yfir því, sagði eg þá, að eg merki, að mínar uppfrædíngar hafa ei verið til forgéfins hjá þér; og eg vil biðja Guð, að þinn nálægi sjúkdómur meigi verða eitt blessunarverkfæri í höndum hans, til að reyna, auðmýkja og helga þig. Mitt kjæra barn, þú hefir eina sálu, ódauðliga sálu, til að hugsa um; þú manst hvað opt eg hefi sagt þér um dýrmæti sálarinnar; "hvað stodar það manninn, sagði Jesús, þó hann ávinni allan heiminn, en líði

tøpun á sálu sinni?" Já, minn Herra, svaradi barnid, eg man þad vel, ad þér sögdud ockur, ad þegar líkami ockar yrdi lagdur í jördina, þá færi sálin ockar í gódan edur vondan stad. En til hvors heldur þessara stada, spurdi eg, hugsar þú ad þú vinnir til ad fara? æ til þess vonda, Herra minn, svaradi barnid. Hvad? — til helvítis? sagdi eg. Já Herra til helvítis, var barnsins svar. Hvad kémur til þess? spurdi eg. Vegna þess eg er svo stórkostligur syndari, sagdi barnid. Hljóta þá allir stórsyndarar ad fara til helvítis? spurdi eg. Allir þeir vinna til þess, ansadi barnid; og eg veit fyrir víst, ad eg til þess vinn. Er þá einginn vegur til ad komast hjá því, spurdi eg; er þar eingiun vegur fyrir einn stórsyndara, ad verda hólpinn? Jú, Herra! gegndi barnid, Christur er einn Frelsari. En hverja frelsar hann þá? spurdi eg. Alla sanntrúada, var barnsins svar. En hefir þú þá ecki sjálf trúna á Christum? spurdi eg. Eg gét ecki þeckt þad, minn Herra, svaradi hún; eg ósk a ad eg hefdi hana; en þad finn eg ad eg elska hann. Fyrir hvad elskar þú hann þá? spurdi eg. Fyrir þad, minn Herra, ad hann dó fyrir mig, sagdi hún; og hvad skyldi hann meira gjöra? Þá spurdi eg: en hvad er þad þá, sem þú vonar ad ødlast fyrir hans dauda? Gódan stad, þegar eg dey, sagdi hún, ef eg trúi á hann og elska

hann. Hefurdú fundid til nockurrar órósemdar út af ástandi sálar þinnar? spurdi eg. O já, Herra, til stórrar ángistar, svaradi hún; þegar þér toludud vid ockur bornin á laugardagana, þá fanst mér opt, eins og eg ætladi ecki ad géta borid þad af, og mig furdadi, ad hin bornin gátu sýndt sig svo athugalaus. Eg þeinkti eg væri ecki hæf til ad deya; eg hugsadi um allt þad vonda, sem eg nockrusinni gjordt hafdi edur talad, og héldt ad Gud hlyti ad vera mér reidur, vegna þess þér svo opt sogdud ockur, ad Gud vildi ecki láta ad sér hæda; og ef ad vid dæum óumvendt, þá gjætum vid ecki komist í himnaríki. Stundum hugsadi eg þá aptur, ad eg væri enn þá úng, þad ridi ecki svo mikid á þessu fyrir mér; og aptur sýndist mér þá, þad væri stór synd fyrir mig, ad þeinkja svo; og sokum þess, eg væri þó svo gomul, ad eg gjæti sjed hvad rétt edur rángt væri, þá hefdi Gud og svo rétt til ad verda reidur vid mig, ef eg gjordi þad sem rángt væri. Þar ad auki fann eg, ad hjarta mitt var ecki réttskickad, og hvorsu kynni þá slíkt hjarta, ad verda hæft til himnaríkis? Í sannleika, minn Herra! eg fann til stórrar sálarángistar.

Þá sagdi eg til barnsins: mín kjæra Jóhanna, æ eg óska eg hefdi vitad þetta allt fyrri; því vildir þú aldrei seigja mér frá því? Hún svaradi: eg þordi þad ecki; og satt ad seigja,

gat eg ei heldur vel skírt frá, hvernig ástadt var fyrir mér; og eg hugsadi þér mundud álíta mig sem ofdjarfa, ef eg færi ad seigja þvílíkum manni, sem ydur, frá sjálfri mér; eingu ad sídur óskadi eg opt, ad þér visšud mínar tilfinníngar og óttasemi. Stundum þegar eg géck í burtu frá húsum ydar, gat eg ecki haldid mér frá ad æpa, og þá hlóu hin börnin ad mér og spottudu mig fyrir þad, og segdust halda eg væri farin ad verda heilög, edur ad minsta kosti ætladi ad láta annad fólk meina svo. Stundum, Herra, innbirladi eg mér, ad þér ecki hefdud eins gott álit á mér, sem á hinum börnunum, og þad særdi mig; eingu ad sídur visši eg, ad eg ei vann til neinnar sérligrar velvildar af ydur, vegna þess eg var svo stórsyndug sképna. Þessum hennar ordum svaradi eg á þennan hátt: mitt góda barn, hvernig gat Sancti Páll sagt, ad hann væri stærsti syndari? manstú hvör ord í textanum gánga á undan þessu ordi: stærsti syndari? Hún svaradi; þessi ord: "þad er ein dyrmæt og allrar vidtektar verdug sögn, ad Jesús Christur kom í heiminn, synduga menn sáluhólpna ad gjöra."

Er þad ecki rétt, Herra! O jú, mitt barn, rétt er þad, svaradi eg. Og eg held, ad sú sama tilfinníng, sem Sti Páll hafdi á því augnabliki, hafi og svo sannfært þig um sama sann-

leika, sem hann. Já, Christur kom í heiminn til að gjöra syndara sáluhólpna! æ. minstú þess nú og æfinliga, mitt góda barn, að Christur kom í heiminn, til að gjöra þá stærstu syndara sáluhólpna.

Æ, Herra, það gledur mig svo mikið, svarandi barnið, að hann gjörði það. Það géfur mér þá von, að hann og svo vilji mig sáluhólpna gjöra, þó eg sé stórsyndug vesælings barnskèpna. En, Herra, eg er svo ofurlíll, og eg gét ecki þeinkt eg fái alltíð yfirunnið það. Eg er hrædd um eg sái ecki að koma til Christum, þegar eg dey. Kom þú til Christum, kjæra barn, medan þú lifir, svaradi eg; og þá mun hann ei kasta þér burtu frá sér, þegar þú deyr.

Hann, sem sagði: "leifið börnunum til mín að koma," hann bídur eptir að géta verið þeim nádugur, og hann rekur þau víst ecki frá sér. Manstú ecki versin, sem eg kéndi þér einusinni, um Jesúm og litlu börnin? O jú, Herra, man eg þau, svaradi hún; þau hljóða svoleidis:

Komið börn til Jesúm, komið brauð!
Hann kom til að freisa oss af syndum og nauð.
Syndin, börn! framar ei locki ydar lyst;
ljúfliga komið til Jesúm Christ!

Hann elskar barnanna sálir, svo sætt
sínum með nádar straum sær hann þau kjætt:

komid börn! sjúkir og særdir af synd!
sá vill ei forsmá vesæla kynd.

Framveigis spurdi eg barnid: hvad var þad sem kom þér í fyrstu, til ad þeinkja svo al- varliga um sálu þína? ydar tal, minn Herra, vid grafirnar í kyrkjugardinum, svaradi barnid, og þegar þér sögdud ockur, hvörsu mörg úng- börn þar grafin væru. Eg minnist, þér sögdud einn dag, hér um fyrir 12 mánudum sídan: æ Börn! hvar ætlid þid verdid nú, eptir hundrad ár lidin hér frá? Börn! hvört haldid þid mun- ud fara, þegar þid eigid ad deya? Börn! ef þid ættud nú ad deya í nótt, erud þid þá viss um, ad þid mundud fara til Christum, og verda hólpin?

Herra! eg gét aldrei gleymt því ordi ydar, þegar þér sögdud: Börn! og þad í þrjár reisur, svo hátídliga, hvad eptir annad. Hafdir þú aldrei fyrr enn þann dag, spurdi eg, fundid neina áhyggju í tilliti til sálar þinnar? Jú, Herra, ans- adi hún; eg þóktist finna hana stundum, nærri strags sem þér tókud til ad kénna ockur á laug- ardags kvöldin. En þann sama dag, sem eg áminnist, hafdi eg þó þvílíkar tilfinníngar, sem eg hafdi aldrei haft ádur fyrri. Mér sellur þad aldrei úr minni. Á öllum veiginum, þegar eg gék heim til mín aptur, og alla nóttina eptir, hljódu þessi ord fyrir mínum þaunkum: "Börn!

hvort hugsið þið munuð fara, þegar þið deyið? Eg þeinkti með mér, að eg hlyti að yfirgéfa allt vondt athæfi; því hvort mundi eg annars fara, þegar eg dæi! En hvörja verkun hafa þessir þánkar haft síðan í sinni mínu? spurði eg.

Herra, eg hefi reyndt til að lifa betur, svaraði hún, og eg lagði af ymsa vonda siðu; en þess framar eg kappkostaði það, því stærri örðugleika fann eg þar við; og mér fanst hjarta mitt svo hardt; gat og ei heldur sagt neinum öðrum frá þessum mínum tilfellum. Gatstú ecki sagt Guði frá þeim, sagði eg, sem heyrir bænir mans og andsvarar þeim? Mínar bænir, svaraði hún (og í sama bili roðnaði hún og blíes þúngan) eru nærsta veselar, og á þeim tíma vissa eg varla, hvörnig eg biðja ætti, svo sem skyldi. En ástundum bað eg þó Guð að géfa mér betra hjartalag. Í öllu þessu hennar tali, var þvílíkt ein art, er auglýsti það sinnislag, er fullt væri af sannri einlægni og andligri upplýsíngu. Hún talaði með svoddan einfeldni, sem einu barni er eiginlig, en þó svoddan alvörugéfni, sem einum Christnum hæfir. Eg gat varla yfirtalað sjálfan mig, að hún væri hinn sami únglíngur, er eg þeckt hafði fyrir nockrum tíma liðnum. Hennar ásýnd og augnaráð vottaði mikilvægustu hugarhræríngar, og með því talaði hún miklu meira, enn túnga hennar féck útlistað. Allt hennar tal vottaði sig líka að vera óþvíngað

og frjálsligt, hvad henni hafdi þó ad undanförnu misg fjarstædt verid; eingu ad sídur var þó tal hennar sidsamt, audmjúkt og tilgjördarlaust. Ad hún var svo fús til vidtals, var ávöxtur hennar andligu hugsýkis, en eingin bernskulig framhleypni edur forvitni. Kénnimerki gudligrar sinnisbreytíngar vóru ofauglјós, til þess þau misskilist gjætu; og strags sem eg í fyrsta sinni vitjadi hennar, vard eg var hinna ljósustu rökséemda, til þvílíkrar umbreytíngar. O hvörsu var þad uppörfandi, hvörsu gagnsamligt fyrir mína eigin sálu! Nú sem litla Jóhanna héldt áfram ad tala, sagdi hún: einn dag var þad, sem eg þeinkti eg væri hvörki hæfilig til ad lifa né deya, sökum þess eg gat einga huggun fundid í þessari veröldu, og eg var viss um, ad eg var ómaklig ad fá nockra huggun í hinni annari. A þeim sama deigi sendud þér mig til ad læra versin, sem stódu á legsteininum, og þá las eg líka hin, er stódu á steini þeim, er þar var nærstur hjá. Eg man vel til þess, mín góda Jóhanna, svaradi eg, þegar þú komst til baka, og last upp bádar grafskriftirnar fyrir mér.

Þad vóru tvær línur, sagdi hún, í þeirri sídari grafskriftinni, sem gáfu mér stórt og hrærandi þánka efni. Hvörjar vóru þær? spurdi eg. Þær vóru þessar, sagdi hún:

Dýrdliga Gudslamb! þinn himneski ljómi þad sjer,
ad lifum vér hughraustir, hughraustir deyum og vér.

Eg óſkadi af hjarta, ad Gudſpjallid edur Evangelium væri innrætt mér, ſvo eg mætti lifa og deya med hughreyſti; og mér fanſt þá, ſem það mundi verda ſvo. Eg hafdi aldrei ſeingid ſvo ánægjuſamar tilfinníngar í ſálu minni ſvorri. Þeſſi ord vóru opt í mínum þaunkum: vér lifum hughrauſtir, hughrauſtir deyum og vér. Ó það í ſannleika dyrmæta Evangelíum, ſem þetta veikar, þeinkti eg. Mitt kjæra Barn! ſagdi eg þá til litlu Jóhönnu: hvör er meiníngin í þeſſu ordi: Gudſpjall edur Evangelíum? Góð tídindi, ſvaradi hún.

Góð tídindi — fyrir hvörn þá? ſpurdi eg. Fyrir veſæla ſyndara, ſvaradi hún. Hvör hefir þá ſendt þeſſi gódu tídindi til veſællra ſyndara? ſagdi eg. Það hefir Gud almátugur gjördt, ſvaradi hún. En hvör er ſá, ſem færir þeim þeſſi gódu tídindi? ſpurdi eg. Þér erud það, Herra, ſem færid þau til mín, var hennar ſvar.

Vid þeſſi ord rétt ſem brádnadi mín ſála í mér, og eg gat ekki þeirra tára bundiſt, ſem þeſſi hræríng uppvakti. Þetta hennar ſídarſta ſvar, var eins óeptirvænt ſem átakandi. Eg fann í hjarta mínu til ſömu vidkvæmrar elſku og þakklátſemi, ſem einn fadir finnur yfir ſínu nyfædda frumgétna barni. Jóhanna æpti líka ſvo. Eptir litla þögn, ſagdi hún: æ Herra, eg óſka þér vildud tala vid ſodur minn og módur mína og minn litla bródur, því eg er ſárhrædd um,

þau séu á voudum veigi. Hvornig kémur það til? sagði eg. Æ, minn Herra svaraði hún: þau drecka, og blóta og deila, og gjöra ecki það sem gott er: og það gjörir mér svo mikla hugarángist, að eg gét ecki borið það af. Ef eg tala eitt orð til þeirra, verða þau reið við mig, og skipa mér að þeigja; eg skuli ecki setja mig upp til að kénna þeim.

Herra, eg skammast mín að seigja yður þetta um þau; en eg vona eg gjöri það ecki rángt, því eg vil gjöra það þeim til góðs. Eg óska, svaraði eg þá, að þínar bænir og umhyggja fyrir þeirra sálum mætti verða þeim til blessunar. Eg vil og svo gjöra hvað eg kann. Eptir þetta baðst eg fyrir, ásamt með barninu, og lofaði að eg skyldi koma til hennar stöðugliga. Þegar eg nú géck til baka heim til mín, þá brann hjarta mitt af þánkabrotum um það, sem eg séð og heyrdt hafði:

Sú litla Jóhanna sýndist að verða mundi sá fyrsti ávöxtur minnar prestligu og andligu uppskéru. Þessi þánki styrkti og efldi mig kröptugliga í mínum embættis fyrirtækjum.

## Þriðja Atriði.

Sjúkdómur litlu Jóhönnu var þrálátrar náttúru. Eg heimsókti hana ydugliga. Sál þessarar úngu christnu manneskju var í vissum tröppugángi, en þó duganliga undirbúin til him-

narikis. Eg hefi sjaldan hjá eldri persónu, undir líkum kríngumstædum, ordid var sterkari kénnimerkja alvarligrar sjálfsprófunar, stadfastrar alvörugéfnis og gudligs hugarfars, enn hjá henni. Einn morgun, þegar eg kom til kotsins, fann eg hana í rúmi sínu vera ad lesa Dr. Watts sálma fyrir börn, af hvörjum hún hafdi mikid eptirlæti. Hvad ertú nú ad lesa þennan morgun, Jóhanna mín, mælti eg. Herra, svaradi hún, eg hefi verid ad hugsa mikid um nockur vers í minni litlu bók. Þau eru þessi:

Þar er ein stund eg þeinkja vann, þegar eg
hlýt ad deya;
ei veit hvad fljótt hún koma kann, kann mér þad
einginn seigja;
jafnaldrar mínir þúsund því, þrátt hafa fallid
daudann í;
af Drottni dæmdir preya.

Lífstíd þá sem mér lénast nú, leitast vil eg ad
bæta,
ádur enn stundin úti er sú, ad eg kann þess ad
gæta;
í gröfinni einginn ydran finst, eptir daudaun ei
nockrum vinst
umbót á syndum sæta.

Minn Herra, eg finn ad allt þetta er meir enn satt; en eg er hrædd um, eg betri ecki þær

lífsstundir, sem eg á eptir, eins og mér bæri. Eg hugsa þó, ad eg muni ecki leingi lifa; og þegar eg minnist synda minna, þá seigi eg:

Drottinn ad þínum fótum fast, fell eg med blygdaninni,
uppí þig líta eg ei vogast, aumur í sálu minni;
fyrirgéf syndir mínar mér, minn Gud, ádurenn deya fer;
bók mádú þær af þinni!

Æ haldid þèr þá, Herra, ad Gud vilji fyrirgéfa mér þær? Mitt kæra barn, svaradi eg, eg hefi stóra von um, ad hann allareidu sé búinn ad fyrirgéfa þér þær; ad hann hafi heyrdt þínar bænir, og sett þig allareidu í tölu barna sinna. Þú hefir haft sterk merki til hans miskunar á sálu þinni. Iá, Herra, svaradi barnid; víst hefi eg haft þau; og eg vildi eg gæti elskad hann og blessad fyrir þad. Hann er gódur, já hjartanliga gódur er hann!

Fyrir nockrum tíma ádur hafdi þad mér í hug komid, ad einn máti regluligs samtals um höfud-atridi trúarbragdanna mundi vera harla ákjósanligur, fyrir þessa merkiliga barns sakir; og eg þeinkti ad vorrar kyrkju barnalærdómur mundi vera sá besti grundvöllur til þessa áforms. Eg taladi því til barnsins og sagdi: þú gétur vænti eg, lesid upp barnalærdóm þinn, Jóhanna

mín? Já það gét eg, Herra, sagði hún; en eg held það verið hafi ein af mínum stóru syndum í Guðs augliti. Hvað? svaraði eg, — synd, að lesa barnalærdóminn? Já, Herra, svaraði hún; á þvílíkan hátt, sem eg gjørði það. Hvørnig gjørðir þú það? spurði eg. Í sannleika yfrið athugalaust, svaraði hún. Eg hugsaði aldrei neitt um meiníngu orðanna; og það hlýtur víst að hafa verið mikið rángt gjørdt. Minn Herra! Barnalærdómurinn er fullur af góðum hlutum; eg vilda að eg skildi hann betur. Viltú þá, mitt barn, svaraði eg, að við tølum lítið eitt smámsaman um þessa góðu hluti; hvørja, eins og þú segir, er að finna í barnalærdóminum? Hefir þú vel yfirvegað, hvað það er að vera limur Christi, barn Guðs og erfíngi himnaríkis? Það hugsa eg, minn Herra, ansaði barnið, eg allareiðu hafi yfirvegað það að mestu leiti; en mig brestur að vera svo, ekki að eins að nafninu til, heldur í raun og sannleika. Þér søgðuð mér einusinni, Herra, að svosem qvisturinn heyrir til vínviðnum, steinarnir bygginguni og limirnir líkamanum og høfðinn, svo sé sanntrúaður maður áhángandi Jesú Christo. En hvørnig gét eg þeckt það, að eg heyri Christo til, sem sannur limur hans líkama?

Þá svaraði eg: elskarðú nú ecki mitt barn, Christum betur, enn þú áður hefir vön verið að elska hann? Jú, það held eg vissuliga gjøri,

svaradi hún. Hvornig kémur þad til, ad þú elskar hann? spurdi eg. Sökum þess, sagdi hún, ad hann elskadi mig ad fyrra bragdi. Af hverju, spurdi eg, veitstú þad, ad hann elskadi þig ad fyrra bragdi? Hún svaradi: vegna þess hann hefir sendt mér uppfrædíngu; hefir látid mig finna til synda minna, í hjarta mínu; kénnt mér ad bidja um fyrirgéfníngu, og elska gudligt líferni. Hann hefir sendt ydur, Herra, til ad kénna mér, og ad sýna mér mátann, á hvern eg géti hólpin ordid; og eg vona nú ad verda hólpin á þann hátt, sem honum þóknast.

Stundum finst mér ad eg elski allt þad, sem hann hefir talad og gjørdt, svo mjøg, ad eg óska ad þeinkja ecki um neinn hlut annan, enn þad sem því vidvíkur. Eg veit ad eg ecki hefi von verid ádur ad hafa svoddan tilfinníngar; og eg þeinki, ad hefdi hann ecki elskad mig ad fyrra bragdi, þá hefdi mitt vonda hjarta aldrei neitt steypt um ad elska hann; því ádur var þad svo fyrir mér, ad eg elskadi adra hluti meira enn min trúarbrøgd, en nú eru þau allt í øllu fyrir mér. Trúirdu því þá í hjarta þínu, spurdi eg, ad Christur bædi géti og vilji frelsad þá stærstu syndara? Já, því trúi eg, svaradi hún. En hvílíka álítur þú þá sjálfa þig ad vera? spurdi eg. Eina únga, en þó stórsynduga stúlku, sagdi hún. En er þad þá ecki fyrir hans nád, spurdi eg, ad þú þeckir og finnur sjálfa þig, ad vera svo

stórsyndnga? vissuliga, svaradi hún; þad hlýtur svo vissuliga ad vera. Girnist þú þá alvarliga, spurdi eg, ad yfirgéfa allar syndir? Já, svaradi hún, ef eg þecki sjálfa mig rétt, þá veit eg ei betur enn eg girnist þad. Finnurdú þá, spurdi eg, þann anda í þér, sem mótstedu veitir syndinni, og lætur þig hata hana og fordast? Já, eg vona eg finni hann, svaradi hún. Hvør hefir géfid þér þann anda, spurdi eg, eda hefir þú alltíd verid svo? Hún svaradi: þad hlýtur Christur ad hafa gjørdt, sem elskadi mig og gaf sig sjálfan út fyrir mig. Ádur fyrri var eg rétt afskiptalaus um þvílíkt.

Nú svo, mín dýrmæta Jóhanna, sagdi eg, þetta allt sýnir þá sameiníngu millum Jesú Christi og þinnar sálar. Sýnir þad ecki hvørsu þú lifir, hrærist og hefir andliga tilveru í honum? Rétt eins og hvør limurinn er teingdur vid þínn líkama, og sídan vid þitt høfud, og hefir þessvegna krapt til ad lifa og hrærast, vegna þess blódid og saftirnar renna frá høfdinu til limanna, svo ertú nú og svo á andliga vísu einn limur á Christi líkama, ef þú trúir á hann og lifir honum til lofs og dýrdar. Skilurdú nú skilid mig? Hún svaradi: já Herra, eg trúi eg gjøri þad; og þad styrkir sannliga mikid hjarta mitt, ad horfa uppá Christum sem mitt lifanda høfud, og meiga álíta mig sjálfa, sém þann læsta og vesæla ta af hans limum. Seigdú mér nú, spurdi eg hana

þá, hvorjir þínir þánkar eru um það, að þú sért eitt Guðsbarn? Eg veit fyrir víst, svaraði hún, að eg vinn ecki til að kallast Guðs barn.

Eg spurði hana þá: gésturdu sagt mér, hvör vinnur til þess? Hún svaraði: ecki ein einasta manneskja, Herra. Hvornig kémur það þá til, sagði eg, að nockrir kallast þó að vera Guðsbörn, þar vér þó allir af náttúrunni erum börn reiðinnar? Það skéður fyrir Guðs náð, svaraði hún. Hvað meinast þá fyrir Guðs náð, sagði eg. Velunnan Guðs, já fríviljug velunnan til syndaranna, ansaði hún.

Það er rétt, var mitt svar; en hvað er það sem Guð veitir börnum reiðinnar, þegar hann gjörir þau að börnum náðarinnar? Hún svaraði: það er dauðinn frá syndunum, og ný fæðíng til réttlætisins. Er það ecki rétt svarað, Herra? O'já, ansaði eg, þetta er ávöxtur af Christi endurlausnár elsku, og eg vona þú sért hluttakandi í þeirri blessun. Guðs ættkvísl er nefnd eptir hans nafni, og hann er sá frumgétni á medal margra brædra. Hvílík náð er það, að Christur kallar sig sjálfan vorn bródur. Mitt kjæra barn, hann er og þinn bródir; og hann mun ei láta sér minkun þykja, að kannast við þig og framleiða fyrir sinn fødur, á síðarsta deigi, svo sem eina þá, sem hann keypt hefir med sínu blódi. Þá svaraði barnið: æ eg vildi eg gjæti elskad minn fødur og minn bródur, sem á

himnum eru, betur enn eg gjöri! Gud veri mér syndugri líknsamur! Eg hugsa, Herra, ef eg væri Guds barn, þá mundi eg ecki svo opt móti honum brjóta. Hann sýnir mér kjærleika framar enn mörgum ödrum, og eg sýni honum þó nærsta vesæla hlydni aptur á móti. Þad er eins og í versinu stendur: Velgjördum sæmir mörgum mig "meir enn ödra, í þessum heim"; ó ad eg gjæti aptur þig", elskad og heidrad betur þeim!

Þá sagdi eg til hennar: þad er sá besti máti til ad sanna þig sjálfa ad vera rétt Guds barn. Vottadu þína elsku og þacklátsemi til þíns himneska födurs, sem tilbúid hefir þér arfskipti medal þeirra heilögu í ljósinu, og gjördt þig ad erfingja himnaríkis, svovel sem ad lim Christi og barni Guds. En — skilur þú hvad meint er fyrir himnaríki?

Rétt í því bili eg mælti þessi ord, kom módir hennar inn í húsid þar nidri, og tók ad tala til eins úngs barns, med reidugligri röddu og ósæmiligum sokyrdum; en hætti strax aptur, þegar hún heyrdi, ad vid litla Jóhanna vorum ad tala saman, þar uppi hjá rúmi hennar. Æ mín kjæra módir, sagdi þá sú litla, þér hefdud ecki hætt sona fljótt, ef Presturinn hefdi ecki verid hérna núna. Herra, þér heyrid nú hvernig hún módir mín blótar; eg bid ydur ad tala nockud vid hana, því hún vill ecki heyra mig. Eg veit

þá fram að tröppunum, og kallaði til konunnar. En af því hún skammaðist sín, fyrir það hún hugsaði eg hefði kanské heyrt orð þau, sem hún brúkaði, strauk hún strags á burtu úr húsinu, og komst því í þetta sinn hjá áminníngu. Þá sagði litla Jóhanna til mín: Herra, eg er svo hrædd, ef eg kémst til himnaríkis, að eg þá fái aldrei að sjá mína vesælu móður þar. Æ, eg óska eg feingi það; en hún blótar svo mikið, og slær sér í vondan selskap. Meðan eg ligg hérna í rúminu, Herra, mörgum stundum saman, þá vill þarna niðri í húsinu verða opt mikil illindi, háreysti og deilur, að eg ekki sje, hvörnig eg gét borið það af. Það tekur svo sárt, Herra, þegar faðir og móðir breyta svo. Æ það vantar, að þau öll snúi sér til Drottins, og gángi veiginn til himnaríkis. En, minn Herra, seigið mér um það sem þér hvurfuð frá, nefniliga: um einn erfíngja himnaríkis. Þú munt vinnast þess, mitt góða barn, svaraði eg, hvað eg talaði við ykkur, þegar eg var að útleggja fyrir ykkur barnalærdóminn í kyrkjunni, nefniliga: að fyrir himnaríki meinist opt í Ritníngunni Christi kyrkja hér á jörðunni, svovel sem stand dýrðarinnar á himnum. Það fyrra er undirbúníngur til hins síðara. Allir sannchristnir eru erfíngjar Guðs og samarfar Christi, og munu að erfðum taka dýrð og farsæld í hans ríki, og lifa með Christo, og

hjá honum vera eylífliga. Þetta er nádargjöf Guds til hans óskabarna, og allir sem trúa réttiliga á Christum, munu komast ad raun um sannleika þessa hans fyrirheitis: "Þad er vilji ydar födurs, ad géfa ydur ríkid." Þú ert nú ad vísu vesæl barnskepna, en eg er fullviss um, ad þér mun ríkugliga tilreiddur verda inngángur í þad eylífa ríki vors Drottins og Frelsara Jesú Christi. Þú hlýtur nú ad vísu ad lída, en ertú ecki fús, ad lída fyrir hans sakir, og ad bera þad þolinmódliga, sem hann á þig leggur? Hún svaradi: æ jú, í sannleika er eg fús til þess.

Eg vil ecki mögla. Þad er allt vel! Þá sagdi eg til hennar: nú svo vel, mitt kjæra barn; þú munt þá og med honum ríkja; þó hlytur þú máské í gégnum margar hörmúngar inn ad gánga í Guds ríki; en hörmúngin verkar þolinmædi, þolinmædin reynslu, en reynslan von. Syndú þig því sem sannan Christi lim, ad vera trúfast Gudsbarn, og mun hlutskipti þitt verda, medal erfíngja himnaríkis. Því sannordur er sá því heitid hefir; seldú þess vegna veigi þína Drottni, og reiddu þig á hann; hann mun því vel til vegar koma. Þá svaradi barnid: eg þacka ydur, Herra, eg hefi svo mikid epurlæti af ad heyra þessa hluti; og eg hugsa eg mundi ecki hafa svo mikid eptirlæti af þeim, ef eg ecki hefdi hlutdeild í þeim. En, Herra, þar er einn hlutur, sem mig girnir ad bidja ydur um; — en þad er svo stór

hlutur, ad þad kanské sé óviðurkvæmiligt fyrir mig ad beidast hans, af því eg er svo úng; og þó vona eg ad eg meini þad rétt.

Hér svo sem efadi hún sig ad tala meira, og þagnadi. Hvad er þad, sagdi eg, sem þú meinar til? Vertú ecki hrædd ad seigja mér frá því. Nú dundu tár ofan eptir kinnum hennar, og lítill rodni breiddi sig út yfir hennar áslónu. Hún lypti rétt í svip augum sínum til himins, og sídan snéri hún þeim til mín, med hátídliga hræranda tilliti, og mælti: má eitt svo úngt vesælíngs barn, sem eg er, takast til Sakramentis? Eg hefi fyrir nockrum tíma óskad þess, en ecki vogast til ad minnast á þad, af ótta fyrir ydur mundi synast þad óvidurqvæmiligt.

Mín kjæra Jóhanna, sagdi eg, eg hefi eingan efa í þeisu tilliti, og þad skal vera mín gledi, ad tala vid þig um þad efni, og vona ad hann sem hefir géfid þér laungunina, muni blessa sína eigin innskriptun sálu þinni til handa. Viltú ækstjá þess í dag, edur á morgun? Á morgun, ef ydur þoknast, Herra, svaradi hún. Viljid þér þá koma til mín á morgun, og tala vid mig, um þetta efni; og ef þér þeinkid þad meigi ské, þá vil eg þacka ydur hjartanliga. Núna í dag, er eg svo ofurveikl; eg vona mér verdi betra, þegar þér komid aptur. Eg hafdi mikla ánægju yfir þessu hennar áformi, og gladdist í þeirri

tilvæntíngu, ad sjá eina svo únga og einlæga Christina manneskju, vilja svoleidis helga sjálfa sig Drottni, og medtaka sakramentisins innsigli, uppá Frelsarans elsku til sinnar sálar. Sjúkdómurinn tók ad sönnu hastarliga yfirhönd yfir hennar heilsufari, og sjálf vard hún þess vör. En þó ad hennar ytri madur veikladist, þá styrktist hún þó því framar, fyrir Guds anda krapt, í hinum innra manni. Hún var audsjáanliga fullþroskud til ad njóta betra heims. Eg minnist þessara hluta med hjartahrærandi ánægju, þar þeir svo sem endurlífga fyrir mér mínar fyrstu embættis samkomur, og eg vona ad endurminníng þeirra gjöri mér sannarliga gott; eg óska og svo, ad þeir sömuleidis gjöri þér gott, minn lesari, og fyrir þá skuld hefi eg þá uppteiknad.

O ad sú einfeldni, sem er í Christo Jesú, gjöri þessa stuttu og einföldu frásögu, af þessu fátæklíngs barni, ad einu medali nádar og blessunar á sálu þinni. Ut af munni barna og brjóstmylkínga gétur Gud og svo tilreidt styrkleikann, til lofs sér, en uppbyggíngar ödrum.

## Fjórda Atridi.

Næsta morguns eptir kom eg ad kotinu, hvar Litla Jóhanna heima átti. Þegar eg géck inn í dyrnar, mætti konan mér, sem svo opt var væn ad vera hjá henni, og sagdi: máské, Herra, þér viljid ecki vekja hana aldeilis strags, vegna

þess þad hefir nú sígid ad henni svefnmók, en hún hefir svo sjaldan værd, veslíngurinn svarna. Eg géck sídan hægt og hægt upp troppurnar. Sá eg þá ad barnid sat ad hálfu leiti uppi, studdi hofdinu á sína hægri hond, med Biblíuna opna frammi fyrir sér. Hún hafdi sjáanliga fallid í svefn, midt í því hún var ad lesa. Andlits svipur hennar var mikid hýrligur og rósemdarfullur. Fáein tár hofdu fallid ofan á kinnar hennar, og (líkliga henni óvitandi), dropid ofaná bladsídur bókarinnar. Eg géck sídan ad henni, án þess ad vekja hana, og adgjætti, ad hún hafdi verid ad lesa 23da Cap. hjá St. Lúcas. Hennar vinstri handar fíngur lá yfir bókinni, og bendti til viséra orda, svo sem hún skyldi hafa látid hann vísa augum sínum á þau, medan hún var ad lesa. Eg leit á stadinn og vard þess med mikilri ánægju var, ad hennar fíngur bendti til þessara orda: "Drottinn minnstú mín, þá þú kémur í ríki þitt!" Er þetta af tilvilja edur ásettu rádi? þeinkti eg; hvert heldur sem er, þá er þad samt nærsta merkiligt.

En í odru veifinu þeinkti eg, ad hennar fíngur hlyti vísuliga ad vera vísbendíng til hennar hjartans þánka. Sídan svo sem halfraknadi hún af sínum blundi, án þess þó ad verda þess vor, ad nockur onnur persóna þar nálæg væri; og hún sagdi þá, svo sem midt á milli svefns og voku: Drottinn minnstú mín — minnstú

mín — minstu — minstú slíkrar vesælíngs skepnu — Drottinn minstú mín! Sídan vard henni hastarliga bilt vid, og hún vard mín vør; og sem hún fullvaknud var, útbreiddi sig yfir kinnar hennar, um eitt augnablik lítill rodmi, sem hvarf strags aptur. Þá taladi hún til konunnar sem hjá henni var: æ hefi eg leingi sofid? og undir eins sagdi hún til mín: Herra, eg er ofurvesæl. Og sídan eptir litla málhvíld, sagdi hún aptur: eg er mikid glød, ad finna ydur svoleidis! Eg svaradi: Þú, mitt barn, mátt nú seigja med Davíd: "eg lagdi mig nidur og svaf; eg vaknadi, fyrir því Drottinn vidhéldt mér." Hvad varstú ad lesa? Eg var ad lesa, minn Herra, svaradi hún søgnna um krossfestíngu Jesú. Varstú lángt komin ad lesa, Þegar Þú sofnadir? sagdi eg. Hún svaradi: ad bæn ræníngjans, sem med honum var krossfestur; og Þegar eg kom ad henni, hætti eg ad lesa um stund, og hugsadi med mér, hvílík miskun Þad væri, ef Drottinn minn Jesús vildi nú, minnast mín á sama hátt og hans; og sídan féll eg í svefnmók, og mig dreymdi, ad eg Þóktist sjá Christum á krossinum, og mér Þókti eg seigja til hans: Drottinn minstú mín! og hann leit ecki reidugliga uppá mig; og Þá vaknadi eg. Nú vel, mitt dyrmæta barn, sagdi eg, eg er nú kominn, svo sem Þú badst mig í gjær, til ad veita Þér sakramenti holds og blóds vors blessada Frelsara; og eg Þori ad

seigja, að konan, sem er hérna hjá þér, man með fögnuði samneyta ockur. Þá mælti litla Jóhanna: talið, Herra, fyrst dálítið um sakramentið við mig, ef yður svo þóknast. Þá sagði eg til hennar: þú manst, hvað þú í þínum barnalærdómi lærdt hefir, um þetta efni. Látum ockur yfirvega það! Eitt sakramenti, sem þú veitst, er útvortis og sýniligt merki uppá innvortis og andlig gjæði, sem oss veitast, tilsett af sjálfum Christo, svo sem einslags meðal, fyrir hvør vér meðtökum hin sömu gjæði, og sem pantur einn, til að fullvissa oss þar um. Nú hefir Drottinn áqvarðað brauð og vín í sinni heil. kvøldmáltíð, svo sem útvortis merki er vér með augum vorum sjáum. Kvøldmáltíðin er þessvegna eitt teikn og innsigli uppá hans elsku, náð og blessun, sem hann lofað hefir og gefið øllum þeim, sem meðtaka hana, með réttri trú á hans nafn og orð. Á þennan hátt varðveitir hann vor ámeðal stöðuga endurminningu síns dauða, og þeirra velgjørða, sem vér fyrir hann úr býtum berum. Hvað er það nú, kjæra Jóhanna! sem þú trúir í tilliti Christi dauða? Það, Herra, svaraði hún, að fyrir það hann dó, lifum vér.

Hvað fyrir lífi lifum vér þá, fyrir hans sakir? spurði eg. Hún svaraði, lífi náðar og miskunar nú, en lífi dýrðar og farsældar hér á eptir; er það ecki svo, Herra? Jú vissuliga,

svaradi eg, þeidi er ávöxturinn af Christi dauda, og svoleidis hefir hann opnad öllum sínum trú- udum ríki himnanna. Líka svo sem brand og vín styrkja og endurnæra þinn veslala og af sjúkdóminum vesslada líkama, svo náir blessadur kraptur hans líkama og blóds ad styrkja og end- urnæra sálir allra þeirra, sem setja sína trú, von og elsku á hann, sem elskadi oss, og gaf sig sjálfan út fyrir oss. Nú dundu tár ofanepti kinnvengum hennar, og mælti undir eins: ó hvílíkur einn frelsari! — ó hvílíkur einn synd- ari? hvorsu elskuligur — hvorsu gódur er Jesús! og mun hann vera þad fyrir mig? Ottástú ecki, kjæra barn, sagdi eg þá; hann sem hefir gjørdt þad, od þú elskar hann svoleidis, hann elskar þig ofvel til þess, ad hann vilji afneita þér. Hann vill einganveiginn útreka nockurn þann, sem til hans kémur. Minn Herra! sagdi þá barnskepnan, eg kann aldrei þeinkja um Jesúm og hans elsku til syndaranna, án þess ad for- undrast yfir, hvornig þad géti skéd.

Eg forskulda eckert, nema reidi hans, fyrir minna synda sakir, hvornig gétur hann þá elskad mig? Mitt hjarta er svo vondt, hvornig gétur hann þá elskad mig? Eg hvorki tilbid hann, né þacka honum, né gjøri nockurn hlut, svo sem eg ætti ad gjøra, hvornig gétur hann þá elskad mig? Eg svaradi þá: ó þad er auglióst og víst, ad öll hans elska til vor, er eintóm nád og

miskun; og það er nú það sem sikrar alla blessanina, barnið gott. Seigðú mér: ertú ecki fús til að géfa Christo allan heiðurinn fyrir þína endurlausn, en taka uppá sjálfa þig alla smánina fyrir þínar syndir? Jú, sannarliga er eg það, minn Herra, svaraði hún; því sálmurinn seigir: Guði sé lof, er sendi son" sinn er gjeldist vort hold og blóð;" Líf sitt hann gaf, svo lífsins von" léntist, og friður heimsins þjóð. Lögmál síns föðurs heiðraði' hann," hvörs vér fóttráðum dýrdarvald;" uppá krossinn hann bar vort bann" og borgaði þar vort lausnargjald. Hvörsu gleður það mig, svaraði eg þá, að þú, kjæra Jóhanna, manst svo vel þína barnasálma. Herra, svaraði hún, þér gétið ecki ímindað yður, hvílíkt erfiðlæti þeir gjöra mér. Eg er í sannleika glöð yfir, að þér gáfuð mér þá litlu bók. Nú hindraðist tal hennar um hríð, af hóstа hviðu, sem hún féck. Á meðan heldt konan undir höfuð hennar. Það var hörmúng að heyra, hvörsu það géck nærri henni, rétt eins og hún berdist við öndina. Veslings skepnan mín, sagði þá konan, eg vildi eg gjæti hjálpað þér, og létt af þér þínu pínu; en — hún varir ecki æfinliga. Guð hjálpi mér, sagði þá stúlkan, þegar henni létti fyrir brjóstinu, Guð hjálpi mér; hann mun géfa á því góðan enda.

Herra, mér sýndist þér vera hræddur; — eg er eckert óttasleigin; — þetta er ecki neitt; — mér er nú betra. Eg þacka ydur, kona góð, eg þacka ydur. Eg gjöri svo mikid ómak af mér; en Drottinn muni blessa ydur, fyrir þennan, og allan ydur kjærleika til mín. Já, Herra minn, og svo ydur, fyrir ydar kjærleika. Talid nú vid mig aptur nockud um sakramentid. Hvad heimtist þá af þeim, mín góda Jóhanna, sagdi eg, sem gánga vilja til Drottins máltídar? þar eru fjórir hlutir nefndir í barnalærdóminum; manstú ecki til, hvor sá fyrsti er? Hún þagdi vid, og sídan mælti hún, med einu hátídligu og skynsamligu tilliti: ad ransaka sjálfan sig, hvört madur trúliga ydrast sinna fyrri synda. Eg vona og þeinki, svaradi eg þá, ad þú, góda barn, skiljir hvad þetta þýdir; því Drottinn hefir géfid þér anda ydrunarinnar. Þá sagdi hún: eingin manneskja, Herra, veit hvad þúnga þánka mínar umlidnu syndir hafa gjördt mér; en Drottinn þeckir þá, og þad nægir, og eg vona hann fyrirgéfi mér þær fyrir Christi skuld. Hans blód hreinsar af öllum syndum.

Stundum, Herra, hugsa eg þángad til um syndir mínar, ad eg tek ad tára, og þad kémur mér til ad æpa út af því, ad eg med þeim hefi móðgad Gud minn; en þá styrkir hann mig optur, med sætum þaunkum um Jesúm Christ. Þad er vel, mitt kjæra barn, svaradi eg, ad því er

svoleidis varid. En, seig'ú mér nú, hvør ad er sá nærsti hlutur, sem heyrir til undirbúníngi kvøldmáltídarinnar, og sem á verdur minst í þínum barnalærdómi? Þad er stadfastur ásetníngur, ad lifa nýum lifnadi, svaradi hún. Hvad þ.inkurdú þá um þetta efni, í tilliti til þín siálfrar? spurdi eg. Hún andsvaradi: mitt líf, Herra, mun í þessum heimi stutt verda, og eg óska, eg hefdi híngad til lifad betur, enn og gjørdt hefi. En af øllu hjarta girnist eg, ad þad mætti framveigis, ef eg føri, verda eitt endurnýad líferni. Eg vil afneita øllum mínum vondu vegum, vondu þaunkum, vondu ordum og vonda selskap; en vil gjøra þad, sem Gud skipar mér, og þad sem þér seigid mér rétt ad vera, og þad sem eg sjálf les í minni eigin Biblíu. En eg er ofurhrædd um, ad eg gjøri þad ecki; því mitt hjarta er svo fullt af synd. Eingu ad sídar, minn Herra, bid eg þó Gud minn, ad hann hjálpi mér þar til. Mínir dagar, munu hér eptir fáir verda, en eg óska þeir brúkast mættu Gudi til dýrdar. Þá sagdi eg til hennar: Blessan Drottins, sé yfir þér, kjæra Jóhanna, svo ad hvørt heldur þú lifir, þá mættir þú lifa Drottni; edur ef þú hlýtur ad deya, ad þú mættir þá deya Drottni uppá þad, ad bædi líf þitt og daudi þinn, mættu heyra Drottni til. En á hvørn hlut er nú nærst þessu minst í barnalærdóminum. Hún svaradi: á ad

hafa lifandi trú á Guds miskunsemi, fyrir Christi sakir.

Géturdú trúad því, spurdi eg, ad Gud sé svo miskunsamur vid þig, ad hann vilji fyrirgéfa þér syndir þínar.

Já því trúi eg, Herra, ansadi barnid mikid alvarliga. Nú ef hann fyrirgéfur þér þær, sagdi eg, er þad þá fyrir þínar eigin sakir, Jóhanna mín?

Ney, Herra! ney, svaradi hún; þad er fyrir Christi sakir; fyrir míns endurlausnara Jesú Christi sakir; já fyrir þad einúngis, og ekkert annad. Jesús er allt í öllu. Getur þú þá reidt þig uppá hann? sagdi eg. Hvad? svaradi hún, eg má ekki misttreysta honum; og eg vildi þad ekki, þó eg mætti. Rétt seigir þú, barnid gott, svaradi eg, hann er þess verdugur, ad þú setjir allt þitt traust á hann.

Þessvegna vil eg nú, svaradi hún, bera mig ad halda þakklætisfulla endurminníngu hans dauda. En eg gét aldrei þeinkt um hans dauda, nema eg þeinki og svo undir eins, hvörsu vesæl og óverdug skepna eg er; og ad hann einúngis ad sídur, er svo gódur vid mig. Eg óska eg gjæti þakkad honum, svo sem mér ber. Eg hefi nú, Herra, verid ad lesa um hans dauda. O hvörnig gat fólkid feingid af sér ad breyta svo vid hann, sem þad breytti? En þad skédi allt fyrir vorrar velferdar skuld. Og — sídan um ræníngjann á

krossinum — ó hvörsu yndisligt er það allt! Eg vona hann vilji minnast mín og svo, sem rænfngjans, og ad eg aldrei muni minnast hans og hans dauda, med mesta þacklæti. Þá sagdi eg til hennar: nú ad sídursti, spyr eg þig ad, mín góda Jóhanna, ertú í kjærleika til allra manna? géturdú fyrirgéfid þeim öllum, sem þig hafa móðgad? edur berdú misþocka til nockurar mannesku í hjarta þínu? Minn kjæri Herra, svaradi hún: Ney; hvörnig kann eg svo ad breyta? Fyrst Gud er svo gódur vid mig; fyrst hann fyrirgéfur mér; og hvörsu kynni hans fyrirgéfníng hjálpa mér annars?

Þar er ecki einarsta ein persóna í öllum heiminum, Herra, hvörri eg ecki óski alls góds, fyrir Christi sakir, og það af hjartans rót. Þá spurdi eg hana: hvörnig er þér vid þau hreckjóttu, vondu og illasidudu börn hérna á næsta bæ, sem draga spott og gis ad þér, fyrir gudrækni þína? Hún svaradi: það versta sem eg óska þeim, Herra, er, ad Gud mætti géfa þeim nád til ydrunar, og ad hann mætti umbreyta þeirra hjartalagi, og fyrirgéfa þeim svo öll þeirra vondu verk og ord. O ad hann gjæti fyrirgéfid þeim, eins og eg fyrirgef þeim af öllu hjarta!

Nú hætti hún, og eg vildi ecki spyrja hana meira. Mitt hjarta var fullt. O gétur þvílík ein gudhrædsla fundist hjá einu barni! þeinkti eg. O ad öll börn væru hennar líkar! Réttið

að mér handbókina, sagði eg, samt patínuna og kaleikinn! Minir dýrmætu vinir! Eg vil nú, með Guðs náð, verða ásamt ydkur hluttakandi þeirrar heil. kvöldmáltíðar vors Drottins líkama og blóðs. Þegar eg nú hafði aflokið þjónustugjörðinni, þá sagði eg: Nú, mín dýrmæta Jóhanna! nú ert þú sannliga orðinn ein systir í Christiś kyrkju. O að hans andi, náð og blessan hvíli yfir þér, styrki þig og endurnæri. Þá svaraði hún: miskunsemdir Guðs við mig eru stórar, í sannleika stórar, Herra; já stærri en eg kann að útlista.

Eg þakka ydur fyrir þessa velgjörð! Eg hugsaði eg væri ofúng, til að njóta hennar; og það mundi sýnast of stórt fyrir mig, að þeinkja til slíks. En eg er fullviss um, að Drottinn, er góður við mig, og eg vona eg hafi gjört rétt. Já, mín góða Jóhanna, svaraði eg; og eg trúi því fyrir víst, að þú sért nú bæði innvortis og útvortis innsiglud af heil. anda, uppá dag endurlausnarinnar. Þá andsvaraði hún: minn Herra! þessum deigi mun eg aldrei gleyma. Eg mun ei heldur, að minni meiníngu, gleyma honum, sagði eg.

Ei heldur eg, svaraði sú gamla góða kona. Drottinn hefir verið hér midt á medal ockar þriggja í dag; við höfum víst komið hér saman í hans nafni. Minn Herra, sagði þá barnið, eg ósta þér vildud tala við hana móður mína,

þegar þér komið aptur; en hún hefir sig alltíð í burtu, þegar þér komið, svo þér sjáið hana ekki. Eg er svo ángurbitin vegna hennar sálar, og er hrædd um að hún kjæri sig ekkert um, hvað hennar velferð snertir. Eg vona, svaraði eg, að eg fái hentugleika þar til, þessu nærst þegar eg kém. Vertú nú sæl, barn mitt! Guð blessi yður, minn Herra, sagði hún. Eg þakka yður fyrir allas yðar kjærleika til mín!

## Fimta Atriði.

Sjúkdómur þeirrar litlu Jóhsunnu flýtti lífi hennar hastarliga til sinnar endalyktar. Eingu að síður hafði hún alltaf ánægjanligan málróms og raddar styrk, til að géta talað við aðra, bæði sjálfri sér til mikils eptirlætis og øðrum sem til hennar komu. Annars vóru þeir mjøg fáir, sem réttiliga meta kunnu hennar góða sálar ástand, svo sem það var; samt sem áður gat jafnvel sá athugalausasti ekki annað enn komist við, og fallið í forundrun yfir hennar sterku alvørugéfni, hennar þekkíngu á heilagri ritníngu, og hennar hyggiligu heimfærslu hennar orða, bæði uppá sitt eigið og annara ásigkomulag. Þeir heil. guðdóms neistar, sem endurfæðíngarinnar náð hafði innplantað hennar hjarta, brutust út, eptir því sem sjúkdómurinn dreif hana nær dauðans porti, og tendruðu í henni þann bloßa, er vermdi og lífgaði hvørn sem hana sá. Og eg er fullviß

um, ad hennar eptirdæmi og samtal hefir verkad hiá nockrum, þeim til blessunar. Medan eg rita þetta, endurminnist hugur minn, med þacklæti vid Gud þeirrar uppbyggíngar og huggunar, sem eg, fyrir mína persónu, uppskar af minni umgéngni med henni. Og — ecki eg alleina.

Hinn sídarsti dagur mun, ef mér ei slær feil, leida í ljós fleiri ávexti, sem flotid hafa af elsku Guds til únglíngs þessa, og sídan, fyrir hennar hönd, til annara, sem hana sáu. Og — ó ad mitt hiarta mætti giøra sér þá glediligu von, ad þessi einfalda frásögusla, um ásigkomulag barns þessa, mætti vera sem píla tekin úr orfamælir hess almáttuga, til ad snerta hjarta þeirra úngu og athugalausu. O minn Gud! hagadu því svo til, ad hún hæfi rétt á!

O ad ansga þeis sem les, og eyra þess sem heyrir þessa frásögu af litlu Jóhönnu, verdi hvert um sig, fyrir andakrapt þess allrahærsta, lifandi vitni um þann sannleika, sem er í Christo Jesú! Eg minnist aptur á þá sterku áhyggjusemi, sem þetta dýrmæta barn bar fyrir sinni módur. Eg veit vel, hve furdanliga mótstrídandi mismunur var á milli þánkamáta og hegdunar foreldra barns þessa, og siálfs þess, nær þad er samanborid. Eg ásetti mér, ad útbúa siálfan mig, vid fyrsta tækifæri, sem mér gjæfist, til ad tala vid módur barnsins, í þess eigin nálægd. En konan hafdi jafnan fordast mig, af því hún var sér

medvitandi um hvad hún forskuldad hafdi, og þessvegna hrædd um, hún mundi fá hjá mér ávitur. Gatan, sem eg var vanur ad fara til heimilis hennar, lá, med nockru litlu millibili, svoleidis, ad þad sást vel til hennar útum gluggan á húsinu, svo hún gat þessvegna hægliga hast sig í burtu, ádur enn eg kom heim. En þar var eingu ad sídur ein önnur leid, sem lá gégnum mörkina, og steindi á húsabaki ad bænum; þessi leid gaf tækifæri, vegna þess landslaginu var svo háttad, ad géta komist svo til kotsins, ad ei yrdi vart vid mann, fyr enn rétt í því hann kominn væri. Einn morgun, skömmu eptir þad eg framdi Sakramentis þiónustuna, um hvörja gétid var í næstfyrirfaranda atridi, kaus eg þá sídarnefndu götu til minnar reisu ad kotinu. Hún var og svo í fleiru enn einu tilliti haganligri fyrir mig enn hin fyrri. Fjarlægdin var vart hálf míla frá húsum mínum. Gatan lá afsídis. Þar fyrir gat eg sneidt mig hjá þeim hneigsliśligu hindrunum, sem svo opt koma fyrir augu mans, nær hann geingur um einuar borgar stræti, og raska róligheitum hans, til uppbyggiligra hugleidínga. Þegar eg géck í gégnum kyrkiugardinn, og kastadi augum á þá minniligu gráfskrift, þeinkti eg med siálfum mér: skamt mun nú þess ad bída, ad mín litla Jóhanna blandi moldum síns líkama vid dupt þad, sem hér

liggur, og þanninn sofi með sínum feðrum! Skamt mun þángað til hennar lístiliga súnga, sem nú sýngur Hósíanna syni Davíðs, og skémtir hjarta mínu, með sjáanligum merkium framgjörfrar Guðhræðslu og náðar, verður málllaus í jörðunni. Innan skams mun eg kallaður verða til að skila jörðunni hennar líkama, og blanda þannin, eins og í sálminum stendur: „jörðu við jörðu, ösku við ösku og dupti við dupt”. En — ó hvörsu dýrðlig umskipti verða það fyrir hana! Hennar andi mun þá hafa snúið sér til Guðs, sem gaf hann. Hennar sála mun þá taka undir Halelújah Einglanna í Paradís, meðan vér sýngjum sorgarsaunginn yfir hennar gröf. Og hennar eigið dupt skal þá hvíla hér, í fullvissri von um fagnaðarríka upprisu frá dauðum. Nú gékk eg í gégnum markina, án þess mér mætti nokkur ein manneskja, og glaður varð eg þess, að mér heppnaðist það. Eikurnar, grasið, blágrösin, gyrðíngarnar, sem annaðhvört í hópum, eða hvað fyrir sig, bar fyrir augu mér, hjálpuðu til að gjöra þánka mína róliga. Hér og þar, hvar eg sá eitt fölnað blomstur, lét eg það minna mig á þá fallvaltu náttúru þessa vors stundliga lífs. Þau pláss, hvar skuggi lá yfir, svo sólarhitinn var þar minni, kéndu mér að líta til hans, „hvar að sínum trúuðum er á daginn skuggi fyrir hitanum, ein tilflugtsstaður og skjól fyrir stormi og hreggviðri”. Ek armur skreið yfir gatuna

hanna sagði) eg á nú ecki lángt eptir ólifað. Minn tími verdur stuttur hér eptir. En eg hlýt — sannliga hlýt eg — að tala nockuð fyrir ydar sakir, ádur enn eg dey. Æ módir góð, þér hafið eina sálu, og hvað mun verda um hana, þegar þér deyið? Æ módir mín góð, mér er svo þúngt í sinni, vegna sálar ydar! Æ barnið gott, sagði móðurin; á eg þá að missa barnið mitt! hún ætlar að deya! hvað skal eg tilgiøra þegar þú ert farin, Jóhanna mín? Og hún blies þúngan. Barnið svaraði: hugsið ecki um þetta, hugsið þér um sálu ydar! Eða, hafið þér ecki gleymt henni? Jú, barn mitt, ansaði móðurin, eg hefi verið vond sképna, og hatað allt það sem gott er. Hvað skal eg tilgiøra? Æ módir góð, sagði þá Jóhanna, þér hliótið að biðja Gud um fyrirgéfníngu fyrir Christs sakir. O þér hliótið að biðia. Mín kjæra Jóhanna, svaraði móðurinn, eg gét ecki beðið; því eg hefi aldrei af alúð beðið Gud alla mína æfi. Eg er ofvond til að biðia. Dóttirin svaraði: mig hefir lángað til að tala við ydur fyrir laungu síðan; en eg hefi verið svo hrædd við ydur, að eg hefi ecki þorað að gjøra það. Ydur hefir ecki heldur líkað, að eg skyldi tala um andlig efni við ydur, og eg siálf hefi ecki vitað, hvørnin eg ætti að byria það. En í sannleika, módir góð, eg hlýt nú að tala, ellegar það verdur ofseint. Æ eg vildi presturinn væri nú kominn hérna, því hann kann að

tala miklu betur vid ydur, enn eg. En kanské þér hugsid eptir því, sem eg seigi, svo einfaldt sem þad er, þegar eg er daud. Eg er nú ad sønnu únglíngs krakki, og ecki fær til ad tala um þvílíka hluti vid nockurn mann. En — módir mín! þér erud svo náteingdar mér, ad eg gét ecki afborid ad þeinkja um ydar fortøpun eylífliga. Minn Drottinn og Endurlausnari hefir syndt mér mínar eigin syndir og spillíngu; hann elskadi mig, og gaf sig siálfan út fyrir mig. Han deydi og reis upp aptur, og eg þrái eptir, ad géta vegsamad hann fyrir þad eylífliga. Eg vona ad fá ad siá hann á himnum, og mig lángar eptir ad fá ad siá ydur þar, módir mín góð, líka svo. Farid, farid ad bidja Gud; leggid af blót og deilur og annad íllt athæfi; farid til kyrkiu, ad heyra til ockar prests, hvørnig hann talar um Jesúm Christ, og hvad Jesús giørdt og lidid hafi fyrir vondra syndara sakir. Hann vill sannliga vel allra sinna sóknarbarna sálum. Hann hefir kénnt mér veiginn til eylífs lífs, og hann vill ogsvo kénna ydur hann, módir góð. Því gángid þér alltíd ú úr húsinu, þegar þér vitid hann kémur híngad? Verdid nú ecki reidar vid mig, módir mín; eg tala þetta einasta ydur til góda. Eg var og svo ádur, eins hugsunarlaus um andliga hluti, eins og þér erud. En eg hefi sied mína villu. Eg var á þeim breida veigi, sem leidir til fortøpunar, líkt mørgum ødrum børnum

tilfinníngar syndá sinna. Eingu ad sídur gjördi eg mér þó bestu von, og gladdist ad heyra svo mikilvægar uppbyggíngar, sem flódu út af vörum dóttur hennar. Eg fann þad og svo, ad nærverandi kríngumstædur máttu gjöra hennar tal nærsetdra kröptugra á móðurinnar sálu; enn mitt eigid hefdi getad ordid. Eg hefi opt, sídan þad finn, séd vondar og uggalausar manneskjur komast mikid vid, medan þær setid hafa hjá banasæng Kolumenska í sínna; eg hefi og verid vitni ad vidurkénníngu þeirra á syndum sínum um stundarsakir, og heyrdt þær lofa bót og betrun. En ad stuttum tíma lidnum, hefir alle þetta hvorfid sína leid, og ordid ad eingu, eins og morgundöggin. Þegar búid hefir verid ad grafa skyldmenni þeirra, og þeir hafa feingit uppá þau horft, hefir heimurinn og hans umsorgun, holdid og þess girndir, fallid yfir þá med nýum freistíngum, og mælska ránglætisins veraldarinnar barnum, hefir meira mátt hjá þeim, enn raust sannleikans frá Gudi; svo þad hefir þá rætst á þeim: „ad hundurinn snýr aptur til spýu sinnar, og svínid veltir sér aptur í sínum saur." En á adra sídu, hvörsu opt hafa banasængur sanntrúadra Guds barna ordid til blessunar, þeim, sem verid hafa sjónarvottar ad sigurhrósi nádarinnar (í þeim), yfir synd, dauda og helvíti! Opt hefir þad skéd, ad þeir athugalausu, sem þar hafa nærstaddir verid, hafa þar tekid móti þeirri fyrstu

sáluhjálpligu verkun þess guddómliga sannleika, á medan sá deyandi sannchristni hefir í liósi látid oa voltad Guds elsku og miskunnar krapt í sálu sinni, á þeim annars hættugliga daudans tíma. Á þennan hátt gjörist trúin einn skínandi og brennandi lampi, hvør ed ástundum vermt tær þau kaldustu hjörtu. Þau ord sem heil. andi virdist ad veita sumum þvílíkum, ad géta brúkad til ad útskíra med slíkar himneskar huggánir og andagtarfullar áhyggiusemdir, sem þeir í sálu sinni hafa, verda svoleidis hagkvæmt medal nádar og blessunar, til ad umvenda ödrum, sem þar uppá heyra, edur uppbyggia þá. Makliga má hér upphrópa og seigia: "hvør sem eyru hefir ad heyra, hann heyri hvad Andinn seigir söfnudinum!"

Rétt í þessum svisum opnudust húsdyrnar, og úngur dreingur, bródir Jóhönnu, kom inn. Módurinn kalladi þá ofan úr búsinu, og spurdi hvör þar væri nidri; dreingurinn gégdi, og án þess hún grenslatist um meir, þá var hún kyr uppí húsinu.

Eg bendti þá piltinum, ad hann skyldi setja sig nidur kyrr; og svoleidis komst þad enn nú ei upp, ad eg var þar nidri. Þá heyrdi eg litla Jóhanna héldt áfram ad tala, og sagdi: módir mín! þad er hann bródir minn; þad verdur nú innanskams, ad hann verdur ydar einasta eptirlifandi barn. Æ eg bid ydur ad áminna hann.

ad hann gángi á gódum veigi. Sendid hann til Prestsins, og mun hann verda eins gódur vid hann, sem hánn hefir verid vid mig. Hann er óstyrilátur dreingur, en eg vona þad meigi þó koma honum til ad þeintja um sálu sína í tíma. Þeir rurkunarlausu vondu dreingir, sem hér eru í nánd, kénna honum ad blóta og berjast, og ad breyta eptir öllu þeirra vonda athæsi. Æ Gud hjálpi honum til ad umslya þá tilkomandi reidi! Eg gaf nú dreingnum teikn, ad hann skyldi hlusta á þad, sem systir hans segdi, áhrærandi hann. Hann syndist heyra þad med adgjætslu, og nockur tár drupu ofan á kinnar honum. Þá heyrdi eg módurina sagdi: æ þess er ad vona, Jóhanna mín, ad hann umslyi hana, og vid öll líka svo. Ad vísu, módir gód, svaradi þá Jóhanna, en þid hljótid þá líka öll, ad slya til Christum; því eckert yckar gétur hólpid ordid, án þess. Þid hljótid ad ydrast af hjarta, og snúa yckur frá öllum syndum. En án Guds nádar getid þid ecki gjördt þad. En leitid hennar, þá munud þid finna hana. Gjörid þad fyrir yckar eigin skuld, og fyrir mína skuld, og fyrir míns litla bródurs skuld. Konan tók þá ad gráta og stynja vid, án þess ad svara neinu.

Nú þeinkti eg, þad væri tími til, eg léti af mér vita, géck því ad þrepinu undir trappunum og sagdi: má einn vinur koma upp? Hvada ókunnugur, sagdi þá módurin, þarna er Presturinn.

Komid inn, Herra, sagdi litla Jóhanna; mér þykir svo vænt um, ad þér erud nú komnir. Módir góð, setjid stól handa honum. Konan syndist verda rétt frá sér numin. Jóhanna brósti, þegar eg kom inn, og sagdi mig velkominn; þeir vanta. Sídan sagdi eg til þeirra: eg vona, ad bædi módir og dóttir fyrirgéfi mér. Ladi eg hefi verid svo leingi hér fyrir nedan skeppunarz medan þær áttu tal saman, hvad byrjad var þegar eg kom. Eg kom í þeirri von, ad finna ykkur bádar saman, þar eg fyrir nockru hefi lofad, ad tala vid þig, Sarah, um þad sama efni, sem eg er svo luckuligur ad géta sagt, ad dóttir þín er áhyggjufull um. Þú hefir svo leingi gleymt þessum hlutum og ecki ert um þá hyrdt; og eg hefi óskad ad géta varad þig vid þeirri hættu, sem þínni er sálu stódd; en litla Jóhanna hefir talad allt þad, sem eg tala vildi; og nú spyr eg þig hál-agliga, hvort hjarta þitt hefir ecki mikid komist vid, af hins góda barns trúarfulla samtali? Þú hefdir átt ad vera hennar kénnari og uppfrædari á vegum réttlætisins; en nú er hún ordin þad þér til handa. Einginn ad, efdist hvert þad sé lucka fyrir þig, ef þú gjördist hygginn og hugleiddir þínar sídurstu endalyktir og þá hluti, sem til þíns fridar heyra, ádur enn þeir hulddir verda fyrir þínum augum. Horfdu á þitt deyjandi barn, og þeinktu til hins annars og einasta, sem þú verdur eptir hjá þér; og seigdu mér svo, hvort þessi

hennar annars bleiku ásýnd, sem ei allítid jók hennar alvörufulla útlit. Biblían lá opin frammi fyrir henni, eins og hún sat uppi í rúminu; og med sinni hægri hendi heldt hún um hönd módur sinnar. Og þá taladi hún þessum ordum: módir mín, þessa bók gétid þér ecki lesid; þar fyrir ættud þér því heldur ad gánga ydugliga til kyrkjunnar, svo þér mættud heyra hana þar útlagda. Þad er Guds bók, sem seigir oss frá upphafi, sem til himins liggur; eg vona þér viljid læra ad þeckja hann og ecki gleyma hönum; því, med Guds nád, gétur þad gjört ydur sáluhólpna. Hugsid eptir þessu, módir mín góð, eg bid ydur. Eg fer nú fljótt ad deya. Géfid þessa Biblíu hönum bródur mínum. Og — viljid þér þá vera svo gódur, Herra minn, ad kénna hönum! Módir mín, munid nú til þess, sem eg seigi ydur, og þessi Guds madur, er vitni þar til.

Þar er eckert frelsi fyrir syndarana, sem eru eins og þér og eg, nema í blódi Christi. Hann er máttugur til ad frelsa þá í fullkomnasta máta. Hann vill frelsa alla þá sem til hans koma; hann bídur eptir því ad géta verid þeim nádugur. Varpid ydur sjálfri í hans miskunnar fadm. Eg óska — eg óska — eg — eg — eg —

Nú var hún oldúngis yfirkomin, og féll út af í nockurskonar ómeigin. Módir hennar adgjætti, ad hún mundi nú ad sýnduni liggja fimdarkorn í aungvitinu, ádur enn hún raknadi

vid aptur. Eg nytti mér þetta tækifæri til alvarligs vidtals vid konuna, og sídan bió eg mig til ad fara burtu úr húsinu, þar eg merkti, ad Jóhanna var osmædd og þrád ordin, til ad géta átt meira samtal vid mig, í þad skipti.

En rétt í því eg ætladi ad gánga í burtu, þá sagdi barnid med veikri roddu: Komid nú skiótt aptur, Herra, því nú á eg ecki lángt eptir. Sídan snéri eg heim aptur, um þann sama afsídis veg, sem eg komid hafdi. Nú hugsadi eg, í þeiganda hljódi, um þau háleitu kénnimerki gudhrædslu og trúar, sem mér fyrir sjónir borid høfdu hjá barni þessu, og frá hverjum eg allareidu skýrt hefi. Eg þeinkti: í sannleika er þetta óalmenniliga frábært barn ad gudhrædslu! En hvad er þad sem Guds nád kann ei verka þegar henni er rúm géfid? Er møguligt ad efast um þad, med því sá er, sem er, høfundur og fullkomnari sáluhjálparinnar? Og frá hverjum einum kémur oll gód og oll fullkomin gjøf?

O, hversu ríkuglig og frí er miskunsemi Drottins Jehovæ! Er hann ecki sá sem útvalid hefir þá veiku hluti í verøldunni, til ad kollsteypa þeim sem mektugir eru? Hrósi sér þessvegna eckert hold í hans nálægd, heldur hver sem hrósar sér, hrósi hann sér í Drottni! Mjøg snemma næsta morguns, var sendt til mín, þar Jóhanna héldt þá ad hún deya mundi, og óskadi því ad siá mig þad allra snarasta. Daudans adfarir

fann eg því heldur, sokum þess dagsskýman var svo dæiliga prýdd med þeim tindrandi geislum morgunstjørnunnar á adra hønd, en af því klára bleika skini ens þverranda túngls á adra.

Þegar eg kom nú til bæarins, fann eg eingan þar nidri í anddyrahúsinu; eg skaldradi sídan vid fáar mínútur, og heyrdi barnid, med mikid veikligri rædu segja; haldid þér hann muni koma? eg yrdi svo glød — svo hjartanliga glød — ad eg feingi ad siá hann, ádur enn eg dey. Sídan géck eg upp tróppurnar, og þá vóru fadir hennar, módir og bródir samankomin þar í húsinu, sem ádur er áminst. Jóhønnu yfirbragd bar sýnilig merki bastarligs vidskilnadar. Eingu ad sídur, þó daudinn væri augliósliga máladur á hennar føla yfirbragdi, var þó samt eitt hvad framar enn nockurn tíma ádur, mikilvægt i gjørvøllu hennar útvortis áliti. Á því sama augnabliki, sem hún leit mig, liómadi endurnyad fiør af augum hennar, og þockætusfull hugarhræring geisladi af hennar deyandi ásiónu. Jafnvel þó hún hefdi verid ad tala, rétt ádur enn eg kom kom inn í húsid, eingu ad sídur var hún á eptir, nockra stund, þegiandi, en hafdi þó aldrei augun af mér. Þar var einslags líf í hennar augnatilliti; já þar var enn nú meira; þar var nockud íkke einslags forsmeck himnaríkis, er hún fyndist finna til í hjarta sínu, og gaf eitt med ordum óútskýranligt einkénni, himneskrar gledi og sar-

sældar í sálunni, jafnvel midt í daudanum sjálfum. Ad sídustu mælti hún: þetta er mikit elskuligt, Herra; eg er rétt komin adfram; eg var hrædd, eg feingi aldrei ad sjá ydur aptur í þessari veröldu. Eg sagdi þá til hennar: mitt barn, ertú nú reidubúin ad deya? já, aldeilis, svaradi hún. Hvörja von hefir þú þá? spurdi eg.

Hún lypti þá upp sínum fíngri, bendti til himins, og undir eins bendti hún honum nidur á vid, ad sínu eigin hjarta; og rétt í því bili hún gjördi svo, mælti hún: Jesús þar og Jesús hér! Þessi hennar ord, í sameiníngu med atferdinni, útlystudu hennar meiníngu med stærri þátign, heldur enn nockur kann audveldliga sér ad íminda. Rétt um stund gripu hana nockrir daudans adfarar drættir. Þegar hún leit til sinnar æpandi módur, sagdi hún: eg er ordin rétt köld, — en þad er einginn hlutur — þad lídur fljótt af. Nú apturlukti hún augum sínum hérum eina mínútu; en sem hún opnadi þau, sagdi hún: eg óska þess, Herra, ad þegar eg er daud, ad þér þá viljid segja hinum ödrum börnum hér í sókninni frá, hvörsu gódur Drottinn hefir vid mig verid, eina veslíngs synduga sképnu; seigid þeim, ad þeir sem leita Drottins snemma, þeir muni hann finna; seigid þeim, ad veigir syndar og vanþeckíngar, séu veigir til glötunar og helvítis; og, eg bid, seigid þeim frá mér, ad Christur sannarliga sé vegurinn, sannleikurinn og lífid, og ad hann vilji þann eingan frá sér reka, sem til hans kómur; seigid þeim, ad ein vesæl barnsképna — — — — Nú vard hún aldeilis uppgéfin ad tala, og féll um hríd í tilfinníngarlaust aungvit, úr hvörju hún þó samt semádur raknadi smámsaman aptur, og taladi

þá þessum orðum: hvar er eg? — eg hélt eg væri dáin — Guð hjálpi mér! þá svaraði eg henni og sagði: mitt dyrmæta barn, innanskams muntú verða í hans örmum, hver eð nú leiðir þig, með sínum vendi og staf, gégnum dauðans skugga dal. Sú er mín trú, vissuliga er það mín trú! sagði hún þá; æ mig lángar til að vera hiá honum! O hvörsu góður, hvörsu mikill, hvörsu miskunsamur er Jesús! Hann frelsi mig, hann hjálpi mér gégnum þessa síðustu hörmúngu!

Síðan rétti hún aðra hendina til föður síns, en hina til móður sinnar, og sagði: Guð blessi yckur! — Guð blessi yckur! — leitið Drottins! — hugsið til mín þegar eg er dauð! — það má verða yckur að góðu! — munið til yckar sálna! — því alt má verða vel! — þið getið ecki imyndað yckur, hvað eg hefi haft að bera í hjarta mínu, hennar yckar vegna! — Drottinn fyrirgéfi og frelsi minn kjæra föður og móður! Síðan tók hún í hönd bróður síns og sagði: Thómas! eg bið þig, yfirgéfðu þitt vonda athæfi! — lestú Biblíuna! — eg géf þér mína! — eg hefi fundið hana að vera dyrmæta bók.

Manntú ecki til hans litla bróðurs yckar, sem dáinn er fyrir nockrum árum? Hann var að biðja, á síðarsta augnabliki lífs síns. Lærðú að biðja, meðan þú enn nú hefir heilsu, og muntú þá finna hughreystíngu og krapt, þegar þú átt að deya.

En fyrst af öllu, biddú Guð að géfa þér nýtt hjartalag — því án þess gétur þú aldrei séð Guð á himnum — — þitt nálæga athæfi leiðir til hörmúngar og fortöpunar — ó að Drottinn snúi þér til að elska sig og eptirfylgja sér! — Til hinnar konunnar, sem þar var, sagði hún: eg þacka yður, kona góð, alla yðar elsku-

semi, sídan eg vard veik; þér hafid verid mér til handa christiliga sinnud vinkona, og eg vona Drottinn muni endurminnast ydar fyrir þad, eptir sinni ríkugligri miskunsemi. Þér og eg höfum opt talad hvor vid adra um daudann, og jafnvel þó eg sé nú yngri, þá kallar Gud mig þó fyrri til ad gánga gégnum hann; en blessad sé hans nafn, eg er ecki hrædd. Eg hafdi ádur hugsad, eg mundi aldrei géta hrædslulaus dáid; en í sannleika finn eg mig aldeilis ánægda, nú þegar daudinn ad kémur; og svo verdur þad líka fyrir ydur, ef þér treystid á Drottinn. Hann er Gud bædi þeirra eldri og yngri. Æ mitt kjæra barn, sagdi þá konan: eg vildi eg væri eins hæf til ad deya, eins og þú ert; en eg óttast þad muni aldrei verda — mínar syndir hafa verid svo margar — sannliga margar. Christi blód hreinsar af öllum syndum, svaradi barnid. Á þessu augnabliki, í stad þess ad hennar veikleiki færi í vöxt, sýkum þeirrar þreyttandi mædu af svo miklu tali, þá syndist hún ad safna nýum kröptum. Hún snóri sér til mín, med einu tilliti, sem fullt var af gégnumþreyngjandi alvörugéfni og lífi, seigjandi: þér, minn Herra, hafid verid minn besti vinur á jördunni — þér hafid ként mér veiginn til himins, og eg elska og þacka ydur þar fyrir — þér hafid haft umburdarlyndi yfir mínum veikleika og vankunnáttu — þér hafid talad vid mig um elsku Christi, og hann hefir látid mig finna til hennar í mínu hjarta — eg mun sjá hann augliti til auglitis — hann mun aldrei sleppa mér né yfirgéfa — hann er hinn sami og breytist aldrei. Dýrmæti Herra! Gud blessi ydur! Í þessu bili, reis barnid hastarliga upp, og med óeptirvæntum atlotum, lagdi sína hvítu úttærdu arma utan um mig, þar sem eg

sat á rúmstocknum, hallâdi høfdi sínu ad herdum mér, og mælti med skírum ordum: Gud blessi ydur og umbunni — gjaldid honum þackir mín vegna — mín sála er frelsud — Christur er mér allt í ollu. Herra, vid munum finnast á himnum; munum vid eckí? ó jú, jú sannarliga — þá verdur allt fridur — fridur — fridur — . .

Midt í þeßu fell hún aptur á bak í sængina, og taladi eckert framar; dró eitt djúpt andakaf — brosti — og dó.

Um nockra stund stód eg í þøgn, starði á þann andvana líkama, og gat varla yfir talad sjálfan mig, ad Jóhanna ei væri raunar leingur þar.

Þegar eg nú snéri aptur heimleidis, sett eg í þánka um þad leyndardómsfulla efni, hvørsu ein sála, skilin vid líkamann, flýgur burtu frá þeßari verøldu, til hinnar; hvar þeir heimfærnu andar búa. Fljótar heldur enn er frá boga, og hildur enn geislar ljóßins frá sólunni, hefir andi barnsins þeßa flogid, í hlýdni vid hennar køllun frá Gudi, til ad opinberast fyrir hans guddómliga augliti. Hvør'n hátignarligur sannleiki er þetta, og verdugur fyrir alla til umþeinkíngar. En þveigin í blódi lambsins, sem slátrad var, og farsælliga hluttakandi ordin í þeß kryptugu hreinsun, mætir nú sála hennar þeim, sem hana velkomna seigja, fyrir Guds tróni. Hún hefir alls eingu ad kvída af því stránga Guds réttlæti. Synd, daudi, og helvíti er allt yfirunnid fyrir hans krapt, sem gjørdt hefir hana meir enn ad einum sigrara. Hann mun sjálfur leida hana fram fyrir sinn fødur, svo sem eina af lømbum hinnar hjardar, er hann keypt hefir med sínu blódi; svo sem eina þá, hvørja andi Guds hafdi innsiglad til dags endurlausnarinnar. O hvílík

umskipti fyrir hana! Frá fátækliga umbúnu húskorni, til þeirra engilligu herbergja í Paradís! Frá heysængur rúmi, í skaut Abrahams! Frá fátækt, sjúkdómi og pínu, til eylífs ríkdóms, heilsu og fagnadar! Frá kjörum ermagna, og þreyttss pílagríms í þessum táradal, til kjara eins farsæla ferdamans, sem kominn er til fæstrar og yndisligrar hvíldar á sínu heimili, já til þeirrar hvíldar, sem geymd er Guds fólki.

Á þeim fjórda deigi frá þessum var Jóhanna grafin. Eg hafdi aldrei ádur fylgt neins míns sóknarmans moldum til grafarinnar med líkum hugarhræríngum. Ecki var líkfylgdin ad sönnu mikil, en eg gladdist þó yfir ad finna medal hennar nockur af börnum þeim, sem ádur höfdu verid von ad þyggja, ásamt þeirri sælu Jóhönnu, mína heimugligu uppfrædíngu í hvörri viku. Eg óskadi inniliga, ad þetta sjónarspil mætti til nota innþryckjast þeirra úngu hjörtum, og ad Gud vildi bléssa þad þeim til uppbyggíngar. Þegar eg stód til höfdalags vid gröfina, medan þjónustugjördin vardi, þá samanbar eg í huga mínum, þau fyrri tilfelli, sem vid höfdu borid í þessum kyrkjugardi, vid þau nærverandi. Í þessum stad lærdi hin sæla Jóhanna fyrst ad þeckja krapt Evangelii, sem frelsadi hennar sálu.

Ecki mörgum skrefum frá hennar eiginn greftrunarstad, var grafskrift sú, sem ádur útmálud verid hefir, sem þad fyrsta medal, er hrærdi huga hennar til alvarligrar og hátídligrar sannfæríngar, um sitt sálar ástand. Þessi grafskrift syndist, á þessu augnabliki, ad standa sem stakligur vitnisburdur um þann sannleika, sem hennar línur úthrópa, til sérhvörs og eins framhjágánganda lesara. Svoddan ein samstemma tilfellanna framleiddi kröptuga verkun í mínum

þaunkum. Að kvöldi þessa greftrunardags var heiðríkt og blídt vedur, og ekkert kom fyrir, sem hindradi hátídliga þánkastiúsngu, vid þetta tækifæri. Fridur, var það sídarsta ord, sem litla Jóhanna taladi, medan hún lifdi, og fridur synd-ist nú vera innskrifadur hennar útfarar sjónarspili vid grøfina, í hvørja hún løgd var.

Yndælisfull endurminníng þessa fridar lifnar á ny í mínu eigin hugskoti, medan eg rita þessa frásøgn, um hid sama; og — ó ad sá fridur, sem yfirgeingur allan skilníng, mætti vera í sinni sælufyllstu verkun og krapti, þegar eg loksins skal mæta henni aptur, á sídarsta deigi. Mætur þær, sem eg hafdi á vlátst þús, hvar þessi únga Christína manneskja gréfin var, kom mér til ad planta eitt Ebentré til hófdalags á hennar grøf, sem lá nálægt þeim sudanstara vegg korkjunnar. Eg ágvardadi þad, sem ævaranda minnismerki þeirrar manneskju, hvørrar endurminníng mér svo dyrmæt var. Þessi únga planta syndist um bíd ad þróast vel, og med sínu útvortis blómliga áliti lofadi lángvinnri stødu í síinum plontunarreit. En eptir-á tók hún skjótliga ad uppstrælna, og, líkt sem barnid, vid hvørs grøf hún til eins minnismerkis vera skyldi, visnadi snemma burtu og útdó. Þetta Ebentré syndi nú ad sinnu fallvalt og skammvint minnismerki, eptir þá sælu Jóhønnu, en annad miklu lángvinnara er plantad í mínu eigin hjarta. Og máské frásøgu þessari verdi þess unt, ad senda minníngu hennar ødrum ættkvíslum, þegar hønd og hjarta þess, sem hana ritad hefir, er kaldt ordid í jardarinnar moldu. Máské nockrir þeirra, í hvørra hendur blød þessi koma, kunni, vid lestur þeirra, ad leidast til ad rækta sínar andligu pløntur, med vaxandi von

um luckuligan framgáng, í þeirri svo ærdugu syslun.

Og, gæsi Gud ad líkvænlig blómgan mætti umbuna þeirra umhyggju, og af sér géfa snemmvaxinn og ánægjuríkan ávöxt! Nockrir, sem máské vanir hafi verid ad meta lítils kénnimerki Gudhrædslunnar hjá úngum mannesskjum, meiga hér af sjá þad, ad nádar- og dyrdar-Drottinn er, í audsýníngu síns máttar, ecki bundinn vid aldur né ástand. Þad synir sig stundum í ovinderun Guds elsku til syndaranna, eins og þad geingur til í auglysíngu hans verka á himninum, ad þær lægstu plánetur hværasi í nærsta umhlaupi vid sólina, og njóta þessvegna hinnar allrasterkustu verkunar af hennar ljósi, hita og dráttarkrapti.

Annars innibindur saga þessi, af umvendun þessa fátæklíngs stúlkubarns, einkum þrjú mark-verd atridi, sem tilheyra Christindómsins náttúru, hver hún synir í skjærasta ljósi: Fyrst hreinskilni þá, sem fylgir verkunum Guds nádar í mannsins hjarta: þarnæst þá badskiljanligu samteingíngu millum sannrar trúar og heilags lifnadarlags; og í þridja máta þad stóma og einfalda sinnislag, sem sannarlig elska til Christum innbellir í sálina. En, ó hversu margir fleiri, af trúarinnar heimafólki, á öllum aldri — jafnlítt þeckit ad lucku sem rykti — hafa reist, og eru enn nú á sinni mædusullu reisu, til borgar hinna lifendu, yfir gæsustigu hógværliga umlidinnar forsktunar, og nærri óadgjættrar Gudhrædslu!

Þad er ein þeirra mikilvægustu syslana, fyrir Christiliga stunadan Guds kyrkju þénara, ad uppleita þessar andligu liljur í dalnum, hverra fegurd og ilman er nærri því hulin, undir skugga

þeirra ítrlifjörliga ástands. Ad reisa þessi blómstur vid, og styrkja þau til ad útbreida sinn kraft og ágæti, sams til ad bera sinn ávöxt á hentugum tíma, er þad verk, sem ánægjusamliga endurgéldur mæđu slíks andligs blómsturvaktara.

Én á medan hann er nú í slíkum önnum, ad erfida á sagdan hátt, í síns himneska húsföđurs aldingardi, kann þad tilbera, ad stundum uppvísnun, stundum óvœdur burtuemi, fyrir augum hans, eitt yndisligt úngvidis blómstur, fyrir tímann, á þeis besta blómgunar skeidi. Ef nú þvílíkt tilfelli skyldi mæta honum, þá kann hann máske, eins og eg optsinnis gjördt hefi, nær eg í þaunkum hefi stadid hjá gröf litlu Jóhonnu, adgiöra eina heimfœrslu af eptirfylgjandi línum, sem skrifadar finnast á grafsteini einum, er stendur í hinum sama kyrkjugardi, og seigja:

Sp. Hví var snart svo hrifid burtu
herligt blóm, ad sjerráds vömi?
Sv. Ad þeis vegsur yrdi nægstur,
í aldingardi lífsins jardar!
Simplex.

---

Sá þessa ágjætu og merkiliga hrærandi frásögu í fyrstu á engelsku ritad hefir (Prestur ad nafni Leigh Richmond) hefir og samid adrar tvær jafn-uppbyggiligar, nl. af Elizabethu Lagrmanns-dóttur, og negra þræl einum, sem Gud gjæfi komnar væru og svo út á vora túngu einhvörjum til uppvakníngar.

---

Kaupmannahöfn, 1823.
Prentad hjá Þorsteini E. Rangel.